iñ ad leida i Kyrkiu-Sofnudeñ, þeirra
Sviivirdelegu Afgudadyrkan og falskar
Kieñingar: Peir upphuxa Heimuglegar
Fundingar, med Slægd og Prettviise,
hvorneñ þeir giete fyrerkomed Jaaturum
þijns Heilaga Ords, Peir hafa Vondt i Psal. 7.
Siñe, og med Oluckuna gaanga þeir þwng- v. 15.
ader: Eñ laat þeim sitt Aform bregdast,
Peir umsitia oss eirneñ, og sem Leon situr Psal. 10
um Braadena, so stunda þeir epter vorre v. 9.
Saalu. Peir sperra upp sijn Gin, svo sem Ps. 5. v.
Eina opna Grof til ad svelgia oss, O HEr- 10.
ra Gud, yfergief oss ecke i þeirra Valld, Psalm.
þvi siaadu ad þeir Ogudlegu Hoopar seigia 124. v. 1
i sijnu Hiarta, ad þu DRotteñ Gud hafer
gleymt oss, og ad þu hafer byrgt þijna A-
sioonu; Par fyrer Rijs þu upp DRott- Psalm.
eñ, og upplypt þiñe Hende, og gleym ecke 10. v. 11
þeim Aumu og Voludu; Vakna þu Drott 12.
eñ, Hvar fyrer sefur þu? Vakna þu, og Psalm.
burtskwfa oss ecke so med ollu, Hvar fyrer 44. v. 24
byrger þu þitt Andlite? Og gleymer vorre 25. 27.
Eymd og Piaaningu? Tak þig upp og
hiaalpa, og frelsa oss vegna þiñar Giæsku,
svo ad Ouinureñ hafe ecke neitt med oss ad
giora, og þau Belials Born kuñe oss ecke
ad skada: Frelsa þu oss fraa Hende þeirra
Añarlegu, hvorra Lærdoomur ecke er til Psalm.
neirnrar Nytseme, og þeirra Verk eru ecke 144. v. 8
C4 utañ

utañ Fals, þvi þeir vilia ecke laata sig Leid-
1.Tim. rietta, so þeir giore nockud Gott, Þeir vilia
6.v.15. ecke ackta þig DRotteñ allra DRottná,
nie giefa Giætur ad Verkum þiña Handa-
þar fyrer muntu foreyda þeim eñ ecke upp-
byggia þa. O DRotteñ Gud Zebaoth,
Psal.55 Strijd þu aa moote vorum Mootstødur-
v. 1. um: Gief Vorum Christelegum Yfer-
Moñum Sigurviñing aa moote Ovinum
2. Par. þijns Nafns, þvi Sigureñ kiemur af Him-
14.v.9. nenum, og er ecke komeñ under mÿklum
Ps. 10. Mañ-Fiolda, þvi þu kañt so vel ad Hiaal-
v.15. pa med Faaum sem Morgum; Þar fyrer
brioot þu i sundur Armlegg þeirra Ogud-
Ps. 70. legu, og gior þeirra Asetning ad ongvu, fyo
v. 3. þeir kome ecke fram̃ sijnum Raadagiord-
um, helldur hlioote aller þeir ad skamast
sijn, og til Haadungar ad verda, sem þig ha-
ta, og hupa sier ad afmaa þitt Heilaga Ord,
Ps.35. þeir hlioote ad hopa á Hæl, og ad verda
v.5. sem Dupt fyrer Vinde, og þiñ Heilage
Eingell reke þa i burtu, so þeir hroose sier ecke
aa moote þier, og seige: vor Hond hefur
V..46. slijkt giort, Viñ þu þar fyrer Dyrdarleg-
añ Sigur aa Jorduñe, og hiaalpa oss veg-
na þijns Nafns, so þad verde ecke Van-
helgad nie Lastad, Amen.

* * * * * *

8.

Kvølld Bænen.

Þu Almaattuge, Sterke Gud, Lifande Gud, Fader vors HErra JEsu Christi, 2.Cor.1 v. 3.
Eg þacka þier, ad þu hefur med þiñe Guddoomlegre Hlijfd, Naadarsamlega Verndad mig aa þessum Deige, fyrer øllum Skada og Haaska, So eg hefe ecke lided neina Neyd af Ellds-Voda, og ecke i Vatnum drucknad, og eingeñ Villu-Dijr Esaiæ 43. v.2]
hafa mier grandad, Ad eg er ecke fallen fyrer Sverds-Egginni, og mijner Ovíner hafa mig ecke af Lijfe teked, nie neiner vonder Meñ Saarum sært, ad eg hefe hvorke af Pioosum nie Ræningium feinged Skada nie Lemstrar-Saar, þar med, ad eg hefe ecke falled mier til Dauda, nie med nockru moote slasad mig Ovarlega, edur i nockurn Maata Limlestur orded, Og i einu Orde ad seigia, Þad eg er ecke komeñ i neirn Haaska Lijfs nie Lijkama, þad allt samañ aa

eg alleinasta þiñe Myskunseme ad
Psalm. þacka, Þu sem vardveiter mig aa
91.v.11 øllum mijnum Vegum og Stigum.
Eg bid þig nu eñ framar, ad þu vil-
ier fyrergiefa mier allar mijnar
Synder, sem eg hefe giort aa moote
þier, Vardveittu mig Naadarsam-
lega aa þessare Noottu, og alla mij-
na Lijfs-Tijd, aasamt øllum þeim
sem mier eru Naakomner, Skyllder
og Teingder, fyrer allre Neyd og
Angist, Einkum fyrer Diøfulsins
Vielum og Svikum, hvar med hañ
aastundar Dag og Noott, ad aanet-
Psalm. la og fordiarfa oss, Vardveittu oss
91.v.6. eirneñ fyrer þeirre skadlegu Pesti-
lentiu og Drepsoott, sem i Myrkrun
um lædest, fyrer Stoor-Soottum
og Siwkdoomum, fyrer Ovinarens
Ogn og Skielfingu, fyrer øllu Illu
til Lijfs og Saalar, Þvi þu ert mijn
Volldug Hlijf, miñ stoor Styrkur,
mijn Vernd aa moote Brunanum,
Syr.34 og mijn Tialldbwd aa moote Mid-
v.19. deigis-Hitanum, mijn Vernd aa
moote Hrøsuneñe, mijn Hiaalp aa
moote

moote Fallenu, Þar fyrer siertu
Trwfaste Gud vor Verndare, umkrijng þu oss med þine Hlijfd, So
Dioefullen kune oss ecke ad skada,
þvi under hier alleina er komen øll
vor Heilsa, til þijn alleinasta upphef eg mijn Augu, hvadan mier Ps.121.
kiemur Hiaalpen. Mijn Hiaalp v. 1.2.
kiemur af DRottne, sem skapad
hefur Himen og Jørd. Siaa þu, Ps.123.
Svo sem Augu Þienarana horfa v.2.3.
uppaa Hendur sina Yferbodara,
og so sem Augu Ambaattarenar,
horfa aa Hendur sinar Hws-Mood
ur, Svo horfa vor Augu uppaa
DRotten vorn Gud, þaangad til
han verdur oss Naadugur og Myskunsamur, þvi vier erum miøg Faatæker og Aumer, Upplijs þu mijn Ps.70. v. 6. Ps. 13.
Augu, so eg sofne ecke i Daudanum, v. 4.
Þu sem Lifer og Rijker ad Eilijfu,
AMEN.

Anar Jdranar Psalmur, sem er sa Þrijtugaste og Anar i Psalmatølune.

Sæler

SÆler eru þeir hvøriu̅m ad Misgiørdernar eru fyrergiefnar, og þeir hvørra Synder eru huldar.

Sæll er sa Madur, hvøriu̅m DRottenn tilreiknar ecke Syndena, i hvørs Anda eingenn Flærd er.

Þviad þa ad eg villde þaga, þa urdu miin Bein Mꝛattlaus, af minne Daglegre Andvarpan.

Þviad þiin Hønd var Nott sem Dag þung yfer mier, so ad miin Vøkvan uppþornade, so sem af Sumar Þerrer, Sela.

Þar fyrer medkienne eg mijnar Synder, og dreg ecke Dul ur a miin Misgiørning.

Eg sagda: Jaata vil eg DRottne mijnar Yfertrødslur, þa fyrergafstu mier Misgiørning minnar Syndar.

Þar u̅m munu aller Heilager þig bidia i Hagkvæmtelegann Tijma, þar fyrer nær ed Flooded mykillra Vatna þad kiemur, þa naaer þad hvørge til þeirra hinna sømu.

Þu ert mitt Athvarf, Vardveit mig fyrer Angist, ad eg so frelsadur, med øllu Gladvær, kunne ad prijsa þig, Sela.

Eg vil undervijsa þier, og vijsa þier þann Veigenn sem þu att ad ganga, Eg vil med mijnum Augum leida þig.

Vered ecke sem Hestar og Mwlar, J hvøriu̅m þad eingenn Skilningur er, hvøriu̅m Menn verda Bitel og Beytsl i Munn ad leggia, nær ed þeir vilia ecke til þijn.

Sa hinn Ogudhrædde hefur margar Plaagur, Enn hvør ed þann vonar a DRottenn, þann sama mun Myskunsemen u̅mkrijngia.

Ględied ydur i DRottne og vered glader þier Riettlaater, og hroosed þar af aller Riettserduger i Hiarta.

# Þridiudaga
## Bæner.
### I.
### Morgun Bænenn.

Lofadur Sie Gud Skapare Himens og Jardar, Lofadur Ps. 72. v.18.19
sie DRottenñ sa sem alleina
Dasemdarverkenñ giører, og Lofad
sie hañs Dijrdarlega Nafn ad Eilijfu, hvor med sijnum Guddoomlegum Vijsdoome hefur skapad
Dagenñ og Noottena, og þau ad- Gen. 1.
skiled, og þar med so Tilskyckad, ad v.21.
so leinge sem Jørdenñ stendur, þa
skule þau ecke þrioota, so ad Madurenñ meige hafa sijna Hvijld a Noottuñe, og a Dagenñ ad gaunga aptur
til sijns Erfides. O DRottenñ,
Hvørsu mørg eru þijn Verk? Þu Ps. 104. v.23.24
hefur þeim øllum Vijslega skyckad
og Jørdenñ er full af þiñe Giæsku.
Fyrer slijka þijna Velgiørninga skulum vær þacka þier aadur enñ Soolenñ reñur, og gaunga fyrer þig þegar
lijser af Deige. Þar fyrer Prijsa
eg þig nu einnenñ, ad þu hefur laated
mig a þessare Noottu Roosamlega
Sofa og Hvijlast, og med Glede og
Heilbrygde upp aptur vakna, og þar
med Fodurlega Verndad mig fyrer

øllu Ovinarins Vallde, og fyrer allre hañs Vondsku. Eg bid þig, ad þu vilier geyma mijna Saal i þiñe Hende, og Vardveita miñ Lijkama Heilbrygdañ epter þiñe Þocknan, og Vernda mig fyrer øllu Illu, og fyrer øllum Voda og Skada. O þu goode Gud, epter þvi ad nu er
Rom. 13.v.12 Tijme til ad standa upp af Svefne Syndaña og alls Ranglætis, epter þvi ad vor Heilsa er nu nalæg, þa Hiaalpa þu, so eg aflegge Verkeñ Myrkraña, og skrijdest Herklædum Lioossens, Svo eg gaange Sidsamlega so sem aa Deige, ecke i Ofaate nie Ofdryckiu, ecke i Munadar-Lijfe nie Lostaseme, ecke i Hatre nie Ofund, helldur ad eg Iklædunst JEsu Christo i sañre Trw og Christelegre Umgeingne, Þess vegna uppvek þu mig alla Morgna, aahrær þu mijn
Esaiæ 50.v.4. Eyru, so eg heyre þitt Ord med Trw udu Hiarta, og hallde þvi i mijnu
Prov. 21.v.13 Miñe, Og ad eg hneyge mijn Eyru til Kalls og Graatbeidne þeirra Aumu og Faatæku, og yfergiefe þa ecke i þeirra

i þeirra Neyd. Og nær sem eg kalla
til þijn i miñe Neyd og Angist, þa Ps. 86.
Bænheyr þu eirneñ mijna Graat- v. 6. 7.
beidne og fyrerlijt ecke mijna And-
varpan i miñe Sijdustu Neyd, Laat Ps. 88.
mijna Bæn ærla koma fyrer þig, v. 3.
Hneig þijn Eyru til mijns Bæna
Akalls, Uppfyll þu ofs Tijmanlega
med þiñe Naad, þa villum vier hroo-
sa ofs og glader vera i þier alla vora
Lijfdaga, fyrer þañ sama þiñ Elsku-
lega Son Vorn HErra JEsum
Christum, Amen.

2.

## Packargiørd fyrer Helgunena.

Þu Goode Gud Heilagur An-
de, þu sem af Fodurnum wtgeing- Joh. 15
ur, og sendur verdur af Synenum, v. 26.
og ert þeim Samjafn og Sameilijfur, i ein-
um Osundurskiptelegum Guddoome. Eg
tilbid þig, eg Heidra Lofa og Prijsa þig, og
þacka þier af Insta Hiartans Gruñe, fyrer
alla þijna Velgiørninga, og sierdeilis fyrer
þad, þu hefur af þiñe Eigeñlegre Naad, kall-
ad mig og komed mier til þeirrar Heilogu
Christelegu Trwar, og iñhellt þier siaalfum
i mijna Saal i miñe Skijrn, og aan Aflaats
verkar

verkar| þijn Verk i mier. Eg bid þig, ad
med þvi ad eg kan ecke med sialfs mijns eig-
en Krapte nie Skilninge trwa a JEsum
Christum min̄ DRotten̄, eda til han̄s kom-
Joh. 16 ast, þa vilier þu kien̄a mier og leida mig i all-
v. 13. an̄ San̄leik, og Auka og Efla i mier þa so-
mu Trw, og giefa mier riettan̄ Skilning
þin̄a Orda, og helga mig i son̄u Bæna A-
kalle og riettu Trwnadar Trauste, og veita
og giefa mier þan̄ in̄ra Samvitskun̄ar Frid,
med Eylijfre Endalausre Huggun, asamt
Lucæ 11 med allre Hughreyste, Stadfeste og Ugg-
v. 20. leyse. Jn̄skrifa þu JEsum Christum i
mitt Hiarta, þu sem ert Fijngur þess Lif-
anda Guds, og gior þu mig Fullvissan̄ um̄
mijna Saaluhialp, med þijnum Vitnis-
burde: Hugga þu mig a moote ollum
Otta og Holldsins Ostyrk og Jstoduleyse,
Vert þu min̄ trwr Hialpare a moote all-
re Akiæru þess Jllskufulla Diofuls; Styrk
þu mig a moote allre Orvæntingu og Efa-
seme, uppa þad eg verde so i Trwn̄e stad-
fastur, og Jn̄sigladur fyrer þijna Naad, um̄
Guds Fyrerheit, þvi þu ert Pantur vorrar
Eph. 1. Arfleyfdar oss til Endurlausnar. Veittu
v. 13. 14 oss eirnen̄ rietta Astundan, og Jn̄elega And
varpan til Bænaren̄ar, so ad vier med Son
Rom. 8. arlegu Trwnadar Trauste kollum og seig-
v. 15. ium: Abba Elskulege Fader. Uppkveik
þu

þu i oss Elld breñande Kiærleika, þu sem lietst þig siaa med Elldlegum Tungum, liid- Act. 2.
ande yfer þa Heilogu Postula. Gief þu v. 3.
oss Hiartans Einfalldleik, aan alls Galls
og Beyskleika, þu sem þig Openberader i Matth.
Mynd eirnrar Dwfu yfer Vorum HErra 3. v. 16.
JEsu Christo vid Jordan i hañs Heilogu
Skijrn, uppaa þad vier odlunst þijna
Smurning. Endurnya þu mig i þeim Jñ-
ra Mañenum, so ad eg meige fyrer þig ver- Joh. 3.
da Endurboreñ, þu sem Kroptugur ert i v. 7.
Naadeñe og Sacramentunum. Vard-
veittu mig fyrer Afgudadyrkan og Lygum,
og fyrer ollum Oddaadum og Villudoom-
um: Tak þu i burt allañ Ohreinleika mijn-
ns Hugskots. Utslock þu og nidurþryck i
mier allar Holldlegar Gyrnder. Laat þa
Syndsamlegu Fysn ecke faa neirn Krapt i
mijnum Lijkama. Helldur gior þu þier
Eirn Bwstad og Vistarveru i mier, og 1. Cor. 3.
Drottna i ollum mijnum Limum, og iñleid v. 16.
mig epter þetta lided Lijf i þad rietta Fodur- Heb. 11.
Land, Amen. v. 24.

## 3.

## Bæn um stadfasta Von.

Miñ Gud og Skapare Himens og
Jardar, a þig vona eg, Laattu Psl. 25.
mig ecke til Skamar verda, þvi v. 28.

þu ert mitt Athvarf, mijn einka Von og
Ps. 71. Eptetlaangan, allt fraa miñe Barn-Æsku.
v. 5.6. Uppaa þig hef eg reidt mig fraa Moodur-
Liife, uppfylltu mig med øllum Fride og
Rom. Fagnude i Trwñe, so ad eg fyrer Huggun
15. v. 13 og Poleñmæde Ritningareñar, hafe full-
komna Von og Huggun, med Krapte Hei-
lags Anda, Hugga þu mig so eg ørvilneſt
ecke i Kroſſe og Mootgaange, Gior þu mig
Rom. glodande i Anda, Gladværañ i Voneñe,
12. v. 11 Poleñmoodañ i Hormungeñe, Vardveit-
12.
Psalm. tu mig med þijnu Orde, ſvo eg liſe og laate
119. v. ecke mijna Von ad Hneixlan verda. Styrk
116. þu mig ſo ad eg hoolpeñ verde, þa vil eg alla
Tijma hafa alla mijna Lyſt og Unadſemd
af þijnu Hialpræde, þvi þu ert Aſtſamleg-
Tren. 3. ur, þeim ſem uppaa þig vona, og þeirra Saal
v. 25. 26 um ſem epter þier leita. Pad er eirn aa-
giætur Hlutur ad vera Poleñmoodur og
Psalm. ad vona uppaa Hiaalp DRottens. Pvi
9. v. 19. hañ mun eckeølldungis gleyma hinum Vo-
lada, og Von þeirra Aumu og Veſølu mun
Ps. 22. ecke Eilijflega tapaſt. Siaa þu, vorer
v. 5. 6. Fedur hafa vonad uppaa þig, og þa þeir
kølludu til þijn, urdu þeir frelſader, Peir
vonudu aa þig og urdu ecke til Skamar,
Ps. 62. þar fyrer ſetium vier eirneñ vora Von aa
v. 9. þig, og wthellum vorum Hiortum fyrer
Ps. 130 þier. Gud þu ert vort Trauſt, hiaa þier
v. 7. er

er Naad og mykel Endurlausn, þijn Hiælp
ar-Naad kuña ecke ad teliast, og þijn Hond
er ecke stutt ordeñ; Þar fyrer er þad gott Ps. 119.
ad treysta a DRotteñ, og reida sig ecke
uppa Meñena, Vei þeim sem Efast uñ Syr. 2.
Guds Giæsku, og hallda sier ecke vid hañ v. 14. 15
Stadfastlega, og hinum Ogudlegu sem 16.
hvarla hijngad og þangad. Vei þeim
Efasømu, þvi þeir trwa ecke, þar fyrer ver-
da þeir og ecke verndader. Vei þeim sem
ecke bijda DRotteñs, hvorneñ mun þeim
vilia ganga ad Siidustu? Bolvadur er Jer. 17.
sa Madur sem setur sijna Von a Mañleg- v. 5.
añ Styrk ellegar a Einhvoria adra Skiep-
nu, eda uppa sijn eigeñ Verk, þvi Hræsn-
arañs Von mun fyrerfarast, og þeirra
Traust mun ad øngvu verda. Þeirra
Von er so sem Kongulooar Vefur. O! Ps. 13.
þu Goode Gud, Veittu mier ad eg vone v. 6.
þar uppa alleinasta, ad þu ert so Naad-
ugur, og ad mitt Hiarta gledie sig þar af,
ad þu hiælpar so giarnañ: Styrk þu oss
so vier holldum oss vid þa frambodnu
Von, so sem vid eitt sterkt og ørugt Akkiere Hebr. 6.
vorra Saalna., Og ad Eirn og Sierhver, v. 19.
sa sem slijka Von hefur a þier, hreinse sig 1. Joh.
eirneñ so sem þu ert Hreirn og Heilagur, 3. v. 3.
uppa þad vier ødlunst þad Epterkomanda
Lijf, og saum þar og hlioorum allt þad

2.Cor.5 Gooda med Verke og Sañleika, sem vier
v.7. hofum hier vænt og vonad, Amen.

## 4.
## Bæn uñ Christelegt Lijtelæte.

Almættuge Gud, Epter þvi ad eitt
Esaiæ Dramblaatt Hiarta er Svijvirde-
2.v.12. legt, Þvi hvor sem fordiarfast skal
og gaanga til Gruns, hañ verdur ædur
Prov. Stolltur og Dramblætur, og Hofmood-
16.v.18 ugt Siñe geingur undañ Fallenu. Þu
Syr.10 DRottell Gud Zebaoth hefur alla Tijma
v.16. læted þa Dramblætu til Skamar verda,
Lucæ.1. og ad Endalokunum fyrerfared þeim. Þu
v.51. sundurdreyfer þeim Dramblætu i þeirra
Hiartans Huxunum, eñ Audmiwkum giefs-
ur þu Næad, og upphefur Lijtelmagnana
Ps.113. wr Duptenu. Þvi bid eg þig, veittu mier
v.7. rietta og Christelega Audmykt, so eg lære
Matth ad vera Hooværr, og af Hiarta Lijtelæt-
11.v.29 ur epter mijns HErra JEsu Christi Ept-
erdæme, hvor þo hañ være Guds Jmynd,
hiellt hañ þo ecke fyrer neitt Ræn Gude lijk-
Phil. 2. ur ad vera. Helldur Lijtlætte hañ sialf-
v.6.7. añ sig, so ad vier fyrer hañ verdum upphafd-
er til Eilijfs Lyfs, og lærum af honum slij-
Tob. 4. ka Audmykt. Vardveittu mig fraa allre
v.14. Drambseme Andlegre og Lijkamlegre, lát
þana hvorke Rijkia i mijnu Hiarta, nie i
mijnum

mijnum Ordum, med þvi hun er Upphaf
og Under-Root allrar Fordiorfunar: Þvi Syr. 3.
Ofmetnadur giører alldrei Gott, og þar v. 30.
kañ ecke neitt utañ Illt eitt af ad koma, Og
hvor sem Dramblaatur er, saa byriar mar- Syr. 10
gar Svijvirdingar. Veittu mier þa Raad, v. 15.
ad eg kuñe ad Hugleida þad, ad eg er ecke
utañ Andstyggelegur Saur, hvorneñ vill Syr. 10
þa sw Auma Molld og Aska upphreykia v. 9.
sier? Þar ad auk, Hvad hiaalpar Mañen- Sap. 5.
um Priaal og Stolts, hvad stodar honum v. 8.
hañs Rijkedœme med Dramblætenu? Pad
hverfur Alltsamañ i burt, So sem Eirn
Skugge. O þu Elskulege Gud, Vard-
veittu mig fyrer þeirre Andlegu Drambse-
me og Ofmetnade, hvor ecke verkar neitt Syr. 3.
Gott, helldur eykur eirure Eymdeñe ofañ v. 29.
aa adra: Laattu mig ecke verda Ofbelgd-
añ, nie Of-stærelaatañ af þeim Gaafum
sem þu veiter mier, So eg misbrwke þær
ecke, eda forackte nockurn Mañ hiaa mier,
þvi vier hofum vijst ecke neitt af siaalfum
oss til, helldur kiemur þad allt af þier, hvad
vier hofum. Og hvorneñ kañ nockur
Madur ad hroosa sier, so sem hefde hañ þad 1. Cor. 4.
ecke medteked? Þar fyrer hiaalpa þu, so v. 7.
einigeñ hallde meir af sier, eñ honum ber af Rom.
sier ad hallda, helldur ad vier holldum 12. v. 3.
Hoofsamlega af siaalfum oss, og vidurkieñ-

um vorar Synder, og hofum Eitt kramed
Ps.51. og Sundurknosad Hiarta, hvort þu munt
ecke fyrerliita. Vardveittu mig eirnen
Ps.19. fyrer þeim Sialfhælnu, so eg fylleſt ecke af
v.14. Spotte þeirra Dramblatu, nie af For-
ocktun hiña Hofmoodugu. Laattu mig
ecke af þeim underþryncktañ verda. Gief
1.Pet.5 þu ad aller vier Audmijkium oſs under þiñe
v.6. Volldugre Hende, so ad þu upphefier oſs
a þijnum Tijma, Amen.

## 5.

## Bæn fyrer ollum Christelegum Hioonum.

HEilagur Gud og Myſkunſamur Fader, Þu ſem ſialfur hefur Iñ-
Gen. 2. ſett Hioonabands Stiettena, og
v.22. 
Syr. 25 lætur þier þad þægelegt vera, ad Madur og
v. 2. Kona bwe til ſamans, J Ærlegu Lijferne,
og Iñbyrdis Kiærleika, og uppfylle Ver-
Tob. 8. olldena, og auke þañ Christelega Sofnud
v. 9. med Barneigneñe, Hvar fyrer þitt Hei-
laga Nafn verde Eilijflega Lofad og Prijſ-
Gen. 3. ad. Eg bid þig, ad med þvi ad Diofulleñ
v.14. ſa ſem er ſa Argaſte Ovinur allrar þiñar
Gudlegrar Skyckunar, umſitur þeſſa
Stiett hardlega, med allshattadre Slægd,
og ſetur ſig af ollu Megne þar a moote, Pa
vilier þu veita ollum Christnum Hioonum
þijna

þijna Naad, so þau vidurkienne, ad þu hefur Innsett þessa Stiett, og hafe slijka Huggun i sinne Samvitsku, ad þau sieu i eirnre good- Gen. 2.
re og þier þægelegre Stiett, J hvørre þau v. 18.
kunne eirnenn ad þioona þier, og Saaluhoolp-
enn ad verda, so þau sieu þess alvarlegre til
alltar Pocknunar ad giøra þad sem þeirra
Kallan tilheyrer: Hiaalpa þu so þau Otteft
þig, og une Christelega til samans hvørt med
ødru, J riettre Elsku og Eindrægne, og Gen. 3.
neyte sijns Brauds i Sveita sijns Andlit- v. 19.
is, og uppale sijn Børn i allre Gudhræd-
slu, þar med ad þau bere Polennioodlega Eph. 6.
hvørt med ødru, þann liwfa Kross, sem ecke v. 4.
brestur i þessare Stiett. Afftijr þu Hiona
bands Dioflenum, so hann uppræte ecke nie Tob. 3.
fordiarse slijka þijna Skopun og Skyckun, v. 17.
nie giøre þeim sem i Hioonabandenu lifa,
þeirra Stiett Leidenlega nie Hatursama, og
drage Hiooneñ i sitt Net eda i sijna Taal-
Snoru med Vantrwñe, nie nidursaae sijnu Ps. 10.
vonda Sæde aa mille þeirra, med allshaatt- v. 9.
adre Tvijdrægne, Osamþycke og Beyskleik
þeirra Hiarta, uppaa þad, þau verde ecke
villt nie Afvega leidd, til ad syndga aa moote
þijnum Bodordum, med Hoordoome eda
Saurlifnade, eda lockest til ad yfergiefa
hvørt annad, og falle so eda hrase i adrar
Stoor-Synder, Skammer og Lostu, elleg-

ar life añars i Hatre, Kijfe og Tvijdrægne,
Eph. 4. med Kvalning siñar Samvitsku, hvar med
v. 3. Bæneñ og allar Christelegar Jdkaner hind
rast, Kyrkiu-Sefnuduren Hneixlast, og
sa Goode Heilage Ande hryggest. Hiaal
pa þu Myskunsame Gud, so ad soll þau
Hioon sem illa kiemur saman, verde aptur
forlijkud i þijnu Nafne, og fyrergiefe hvort
ødru af Hiartans Gruñe, og miñest a sijna
Fyrstu Trwlofan og Hioonabands Giørd-
ning, og bwe so til samans i riettre Elsku og
Eph. 5. Trwfeste, og Heyre og Lære þitt Heilaga
v. 25. Ord Kostgiæfelega, og hafe þad i allre
Virdingu, og vone og reide sig uppa þig i
øllum sijnum Mootgange, og Lofe og Prij-
se og Vegsame þig med sijnum Bornum, og
Christelegu Framferde, og verde þar med
jafnañ fundeñ i þiñe Pioonustu og Pock-
nan, og epter þetta Forgeingelega Lijf, safn-
est med øllum Gudhræddum Hioonum, i
þitt Eilijfa Dijrdar-Rijke, Amen.

## 6.

## Bæn fyrer øllum Christnum Ungmoñum.

Myskunsame Gud og Eilijfe Fad-
Matth. er, Þu sem hefur sierlega Elsku a
19. Bornunum, og bijdur fyrer þiñ
Elskulegañ Son þau til þijn ad færa, þvi-

ad af Muñe Ungbarnaña og Briooftinyl- Psal. 8.
kingaña, villtu tilreida þier Lof, þar fyrer v. 3.
hefur þu og alvarlega boded, ad Meñ skule
uppala Borneñ i þijnum Otta og Vidur- Eph. 6.
kieñingu, og ecke forsooma þad. Eg bid v. 4.
þig vegna þijns Elskulega Sonar, hvor oss Esaiæ 9
til Gooda Fæddest eitt Ungbarn, og hefur v. 6.
wthellt sijnu dijrmæta Bloode a Krossens
Trie, so vel fyrer Borneñ (so sem Sam- 1. Pet. 3
Erfingia Naadareñar) sem fyrer hina Olld v. 7.
rudu. Veittu þijna Naad þar til, ad all-
er Hws-Fedur og Hws-Mædur, Skoola- Eph. 6.
Meystarar og Tukt-Meystarar, uppfoost- v. 4.
re sijn Born, Ungmeñe og allt Heima-
Foolk i Heilsusamlegum Lærdoome og Vid
urkieñingu þijns Vilia, J goodum Dygd-
um og Ærlegum Lystum, þijnu Gudlega
Nafne til Lofs og Dijrdar, og til þeirra
eigeñ Saaluhiaalpar, J allre Æru og Sid-
seme, uppa þad þau lære fraa Barndoome,
ad Ottast og Elska þig, siñ Gud og Skap-
ara og Endurlausnara yfer alla Hlute
fram, af ollu sijnu Hiarta, og ad gaanga i
þijnum Bodordum. Vardveittu eirneñ
þañ Elskulega Ungdoom, so ad hañ verde
ecke med Fals-Kieñingum og raangre Gu-
ds Pionustu, eda O-Christelegu Athæfe
Afvega leiddur. Vardveittu eirneñ Ung-
meñeñ fyrer vondum Selskap og Ofdryck-

Syr.33 iu, fyrer Saurlifnade, Idiuleyse, og ad
v.28. þau spillest ecke nie hneyrlest af vondum
Epterdæmum. Gief þu og svo Naad oll-
um Børnum, ad þau læte sig upp Aga og
Typta, og sieu hlijden̄ sijnum Forelldrum,
Eph. 6 Yferbodurum og Skoola-Meisturum, J
v. 5. Einfalldleik sijns Hiarta, og medtake Skil-
ning og Vijsdoom, so þau verde Vitur og
Hyggen̄ i Otta DRottens. En̄ med þvi,
ad Man̄legt Hiarta er fyrer Fall vorra
Gen. 3. Fyrstu Forelldra fordiarfad, og ecke hneygt
v.21. utan̄ til Ills eins fra Barn-Æsku, þa tak
Prov. þu i burtu Heimskuna sem Ungdoomenum
22.v.15 er Hiartgrooen̄, so þau giefe ei Ofmyked
Rwm þeim medfædda Siwkleik og Arf-
Syndeñe, nie uppalist i sin̄e Prioosku, ept-
er sijnu eigen̄ Sin̄e, nie verde Prælaat og
Hardsvijrud. Þar fyrer Jn̄planta þu
Goode og Heilage Gud, Otta þijns Hei-
laga Anda, hvorn þau hafa i Skijrnen̄e
medteked: Stioorna og Stijr þeim til alls
Prov.3. Goods, so ad þau Lære þitt Ord, þitt Log-
v.3. 6. maal og Bodord, og take þau sier til Hiar-
21. ta, og feste þau a sin̄ Hals, so sem hid
Prijdelegasta Skart, uppa þad þau þioo-
ne þier þar med i allre Trw og Christelegre
Hlijdne, Hier Stundlega, en̄ sijdan̄ Ei-
lijflega, Amen.

7.

7.

## Bæn a moote Diøfulsins Rijke.

HErra JEsu Christe, Milldaste Gud, med þvi ad Diøfullen er eirn Høfdinge þessa Heims, og þar med Joh. 12
sterkur og Hervopnadur, hvør sitt Herber- v.31.
ge vardveiter, og æn Aflaats styrker, Efler
og Eykur sitt Rijke med allshættudum Af-
gudadyrkunum, følskum Lærdoome og Lyg-
um, med allskins hrædelegum Syndum og Lucæ 11
Svijvirdelegum Løstum. Pa bid eg þig, v.21.
þu sem hønum ert Yfersterkare, og hefur 1.Sam.
þañ sterka Helvijtska Goliath yferuñed, og 17.v.49
særthañ wr siñe Hardneskiu, og þar ad au- Lucæ 11
ke Herfængenu i sundurskipt, og nidurbrot- v.22.
ed hañs Rijke, ad þu vilier eirneñ framveig-
is med þijnum Guddoomlegum Krapte og
Almætte, nidurbrioota Diøfulsins Verk,
og vardveita oss fyrer hañs Rijke, i hvøriu 1 Joh.3
Myrkur og Vantrw, Synder og Skam- v.8.
er og allshættader Løster hafa fullañ og all-
añ Yfergang, og Rijkia þar Hoopum
samañ. O þu Christe Guds Son, Pu
riette Samson, Pu Dijrdarlege Sigurvegare og Strijds-Høfdinge, þu sem med þijn- Jud.16
um Dauda hefur þañ Eilijfa Dauda, i v.30.
þiñe Sigurviñingu afmaad, Og hañs 1.Cor.
Brodd og Bana-Spioot af hønum teked, 15.v.54

og

og giört Helviite med öllu Sigurviñingar-
laust, og frelsad og utleidt, þadañ þa sem
2.Pet. 2 bundner voru med Myrkrañа Hleckium,
v.4. og teked so alla Magt, og allt Valld fraa
Dioflinum. Eg bid þig, veit mier þijna
Naad, ad eg bliife i þijnu Rijke, og sie Heil-
brygdur i riettre Trw, og so sem eg hefe i
miñe Skijrn Heited og Lofad hier miñ
HErra Gud og þijnu Heilaga Evangelio,
og þar aa moote afneytad Dioflenum, og
öllum hañs Vilia og Verkum, og öllu ha-
ñs Athæfe. Ad eg meige slijkañ Saatt-
Eph. 6. maala stöduglega hallda, Þvi nær þu miñ
v.10. Gud, styrker mig med þiinum Krapte, þa
stend eg, Eñ þegar þu hefur þijna Hönd af
mier, þa ligg eg strax falleñ. Þar fyrer
Matth. kalla eg til þijn, þu sem komeñ ert i þeñañ
1.v.21. Heim, til ad frelsa þitt Foolk af siinum
Syndum. Laattu þa ecke fordæmda ver-
da, fyrer hvoria þu hefur wthellt þijnu Hei-
laga Bloode. Tak i burt fraa oss allt þad
sem su Syndsamlega Naattura hefur aa
oss fordiarfad, og vardveit i oss allt þad
sem þijn Naad hefur i oss verkad. Hiaal-
Rom.6. pa þu so vier laatum ecke Syndena Drott-
v.12. na i vorum Daudlega Lijkama, eda sieum
heñe hliiduger i heñar Gyrndum, og liaaum
ecke vora Limu til Hervopna Ranglæte-
sins, so vier verdum ecke Prælar nie Eign

Synd-

Syndareñar. Gief oss þa Naad, ad vier verdum af Hiarta Oviner allra Odygda, og wtrijmum þær, eñ giefum siaalfa oss Gude, so sem þeir, hvørier af Dauda eru lifande ordner, og þioonum þier hier Stund lega, Eñ sijdañ Eilijflega, Amen. Rom. 6. v. 17.

## 8.

## Kvølld Bæneñ.

Herra Gud og Heilagur Fader, aa Deigenum kalla eg til þijn med miñe Raust, þegar mier er Angursamt, aakalla eg þig og ad Kvøllde miñest eg aa þijna Giæsku og Trwfeste, sem þu hefur andsyndt mier. Og sierdeilis Lofa eg þig og Vegsama, ad þu hefur af þiñe skiærre Naad og Myskunseme, so Fødurlega verndad mig og vardveitt, aa þessum uñlidnum Deige, aan allrar miñar Forþienustu og Verdugleika, fyrer Otelianlegum Skada og Haaskasemdum, sem mier hefde kuñad til ad falla; so Andskotteñ hefur ecke Tortijnt mier, med braadum og herfelegum Dauda, og ad eg hefe ecke feinged Skada af O- Psalm. 88. v. 2. Psam. 18. v. 7.

Psalm. 148. v. 8. vedre, Hagle nie Elldingum, ad stor
er Stormar hafa ecke grandad mi-
er, og saa hiñ vonde Ovin hefur ecke
grandad mier, i Mat nie Dryck, med
Eytre, eda ødrum sijnum Pusund-
følldum Svikum. Og ad eg hefe
ecke falled, so ad eg Beinbrotnade
aa Høndum nie Footum, þar fyrer
seige eg þier nu, og alla Tijma, Lof
og Packer, og bid þig, vegna þeirrar
beyskn Pijnu JEsu Christi, ad þu
vilier Fyrergiefa mier alla mijna
Misgiørninga, sem eg hefe giørt aa
moote þier aa þessum Deige. Og
ad þu vilier nu eñ framveigis aa þess
are Tilkomande Noottu, Naadar-
samlega vernda mig fyrer mijnum
Ps. 91. v. 9. Mootstandara, þeim leida Disfle,
og fyrer allre Ogn og Skielfingu
Sap. 17 v. 4. Nætureñar. So eingeñ Forynia,
nie neinar Missijningar fæle mig
nie skade. Vardveittu mig med
Lucæ. 18 v. 12 øllu þvi sem eg hefe, fraa Vatns-
Neyd og Voda-Ellde, og fyrer øllu
Illu til Lijfs og Saalar. Laat
mig Sofa og Hvijlast Roosamlega,
aan

aan allrar Sorgar og Angurseme,
uppaa þad eg meige med mijnum
Hiartans Augum midt i Myrkrun- Mich. 7. v9
um siaa Lioosed þijns Guddoom-
lega Geysla og Liooma yfer mier
skijnanda, þvi þu ert skiært og sañ-
arlegt Lioos, hvørt ed upplijser alla Joh. 1. v. 9.
Diũnu og øll Myrkur sem oss um̃-
krijngt hafa: Þu DRotteñ Gud
ert hiaa mier, þu ert mitt Biarg, Pf.18.
mijn Borg, miñ Frelsare og miñ v. 2.
Lyste-Gardur, aa hvørn eg treyste,
miñ Skiolldur og Horn mijns
Hiaalprædis, mijn Vernd og Hlijf.
Miñ HErra Gud, til þijn wtbreide
eg mijnar Hendur aa Nootteñe, Pf.143. v. 7.
Flijt þu þier mier til Hiaalpar og
vernda mig aa þessare Noottu, so ad
miñ Ande sofne ecke i Syndunum, Pf.13.
og ad miñ Lijkame mæte ecke neinu v.4.
Bondu: Vek þu mig upp i Riett-
añ og hæfelegañ Tijma, so eg meige
siaa þar Lioos Morgun-Dagsins,
og lifa þad af, epter þijnum Naad-
ugum Vilia, Þu alleina kant ad Pf.21.
leingia mijnar Lijfs-Stunder, og v. 5.
ad

ad fylla mig med Allshærttadre
Ps. 103. v. 4. Blessan, J Vorum HErra JEsu Christo, Amen.

## Pridie Jdranar Psalmur, sem er sa 38. i Psalmatoluñe.

DRottenn, Straffa þu mig ecke i Grimd þiñe, og Tyfta mig ecke i þiñe Reide.

Þviad þijn Skeyte þau siijnga mig, og þijn Hønd hun hardþiakar mier.

Eingeñ Heilbrygde er i mijnu Hollde, fyrer þiñe Ognan, Og eige nockur Fridur i mijnum Beinum Fyrer Søkum Synda miña.

Þviad mijnar Misgiørder eru uppgeingnar yfer mitt Høfud, Lijka sem eiñur stoor Byrde eru þær mier mykels til Ofþwngar ordnar.

Mijn Sœar þau eru Fweñ og Rotcñ, fyrer Heimsku miñar Saker.

Eg em bæde Biwgur og Bogeñ, uñ allañ Dag þa geing eg Hryggur.

Þviad mijnar Lendar eru uppvisnadar med øllu, og eingeñ Heilbrygde er i mijnu Hollde.

Mier er øllum uñskipt, Eg er miøg sundur-krameñ, Eg œpe wt af Andvarpañ mijns Hiarta.

DRotteñ, Fyrer þier er øll mijn Astundan, og mijn Andvarpan er þier ei Okuñug.

Mitt Hiarta þad skielfur, miñ Kraptur hañ hefur mig yfergiefed, og Lioosed miña Augna, þad er i burtu frœ mier.

Mijner Viner og Kuñingiar standa i giegn mier, og fordast mijna Plœgu, Og mijner Nœungar flya lœngt i burt frœ mier.

Og þeir sem leitudu miñar Sœlu, uñsitia mig. Og þeir ed mier vilia hid Vonda, tala uñ þad, hvorneñ

þeir

þeir sæe hellst Skada giørt, og allt jafnt sitia þeir æ Svikrædum.

Eñ eg hlijt ad vera sem Daufinge og heyra ecke, og so sem Mællaus, sæ ed ei upplijkur sijnum Muñe.

Eg treyste DRottẽ æ þig, Þu DRotteñ Gud miñ munt Bænheyra mig.

Þviad eg sagde, ad ci munde þeir nææ ad gledia sig yfer mier, Og þa mijner Fætur skeykudu, ad hælast uñ vid mig.

Þviad þar til em eg giørdur, ad eg skule Mootlæte lijda, Og mijn Pijna er jafnañ fyrer mier.

Þviad eg giøre kuñañ miñ Misgiørning, og ber Angur fyrer mijnar Synder.

Eñ mijner Oviner þeir lifa, og eru Megtuger, þeir ed mig hata fyrer eckert, eru Mykilshættar.

Og þeir ed mier giøra Illt fyrer Gott, setia sig upp ī moote mier, Af þvi eg fram fylge þvi hinn Gooda.

Yfergief þu mig ecke DRotteñ Gud miñ, Vert þu ecke Fiarlægur til ad standa hiææ mier, DRotteñ mitt Hiælpræde.

# Midvikudaga
## Bæner.
### I.
### Morgun Bæneñ.

ALMættuge ALLTSkunsame Gud, Epter þvi ad allar þijnar Skiepnur skulu Lofa og Prijsa þig ææn Aflæts, hvad eirneñ

Psalm. 104. v. 11. giøra Smaa-Fuglarner under Himnenum, hvorier þegar Snemmindis a mooteDeigenum, Prijsa og Veg sama þig eilijfann Gud Fagurlega, so sem sinn eigenn HErra og Skapara med sijnum Tungum og Kvake. Svo þacka eg þier nu af øllu Hiarta, ad þu hefur Verndad og Vardveitt mig aa þessare Noottu, og aa øllum Fyrerfarande Tijma mijns Lijfs, under þinne Vernd og Hlijfd, allt til þessarar naalægrar Stundar, og uppvaked mig af Svefne og Myrkrum þessarar Nætur, og laated mig gladann og Heilbrygdann uppstanda. Eg bid þig fyrer þa Dijrd legu og Heilsusamlegu Upprisu JEsu Christi fraa Daudum, ad þu viller eirnenn Frammveigis Vardveita mig, fraa allre Olucku, og fyrer øllu Vondu, aasamt med øllum þeim sem mier eru Skillder, eda i Annann Maata Naakomner. Þar med eirnenn, ad uppfylla mig aa þessum Morgun-Tijma, med þinne Myskunseme, ad eg wtende allann þennann

Dag med Glede, epter þijnum Bod- Ps. 119.
ordum aan allra Daudlegra Syn- v. 47.
da. Veit mier þijna Naad, so sem
eitt Morgun-Regn, og so siñ eina A- Prov. 3.
vaxtarsama Døgg, sem aarla Mor- v. 10.
guns wtbreider sig og vøkvar Land- Gen. 2.
ed, so vilier þu wtbreida yfer mig þij- v. 6.
na Giæsku, og Endurnyja mitt trega
Siñe, so eg sie aafws ad giøra þiñ
Vilia med Fognude, Stioorna mier
med þijnum Heilaga Anda, So eg
meige þioona þier med hreinu Hiar-
ta, J sañarlegu Riettlæte og Hei- Lucæ. 1.
lagleika So sem þier er þægelegt. v. 75.
Vardveittu mig aa þessum Deige,
so eg Syndge ecke aa moote þier, nie
saurge eda flecke mijna Samvitsku,
med Holldlegum Gyrndum, hvør 1. Pet. 2
iar i moote Saaluñe strijda. v. 11.
Vernda þu eirneñ mijna Tungu
fraa vondum Ordum, og geym mijn
ar Varer, ad þær tale ecke Fals nie Ps. 34.
Lygar. Skañarleg Ord og fifls- Eph. 5.
legt Hial (sem Christnum hæfer ecke) v. 4.
Laattu vera laangt fraa mier. Hiaal
pa þu so ad eg hueyxle øngvañ nie

Baktale med mijnum Verum, nie
Fordæme, Laste eda Forsmaae nock-
Syr.22 urn Mañ. Oh! Eg villde ad eg
v.32. kyñe ad setia Laas fyrer miñ Muñ,
og ad þryckia fostu Jñsigle a mijn-
ar Varer, so eg kome ecke þar fyrer i
neina Hrøsun, og mijn Tunga for-
diarfe mig ecke. Gief mier þa Naad,
ad eg vidurkieñe og straffe sialfañ
mig i mijnum Brest og Breyskleik-
ka, so eg falle ecke under þiñ straan-
ga Doom og Urskurd. Þetta veittu
mier Eylijfe Gud, Fyrer vorn HEr-
ra JEsum Christum þiñ Elskuleg-
añ Son, Amen.

2.

## Þackargiørd fyrer Christi Kyñing, þad er, fyrer Guds Ord og Evangelium.

JEG Veasama þig Fader og HEr-
Matth. ra Himens og Jardar, ad þu hefur
11.v.25 Openberad oss Fyrerlitnum og For
Colos.2. acktudum Smaa-Bornum þitt Heilaga
v.3. Ord og þad Elskulega Evangelium, i hvør-
iu aller Fiaarsiooder Vitskuñar og Vidur-
kieñingareñar hulder liggia. Hvort þo er
Okuñ-

Okuñugt Spekingum og Vitringum þess⸗ Matth.
arar Veralldar. Jaa, Elskulege Fader, So 11.v.26
hefur þetta þægelegt vered fyrer þier, Fyrer
slijka þina Velgiorninga vil eg alla Tijma
Lofa og Prijsa þig, þu sem hefur laated mig
Fædast af Christnum Forelldrum, fyrer
hvorra Hond eg hefe med þiñe Hialp kom⸗
est til riettrar Trwar, og ad þu hefur med Es.60.
Geisla þijns Guddoomlega Liooss, upplijst v.3.
mitt Hiarta, og frelsad mig fraa øllum Fol⸗
skum Lærdoome og allre Afgudadyrkan,
uppaa þad, eg verde Hluttakande og Sam⸗
Erfinge þiña Fyrerheita i Christo, fyrer þad
Heilaga Evangelium, hvørt oss bodar og
kuñgiorer þañ Oransakanlega Rijkdoom
þiñar Naadar, og upplijser oss so vier vitum
hvor þar sie Samfielagskapur þess Leynd⸗ Colos. 1.
ardooms, sem laanga Tijma hefur allt til v.26.
þessa huleñ vered. Nu hefur blessad oss Ephes. 1.
med allshaattadre Andlegre Blessan i Him v.3.4.9.
neskum Audæfum, fyrer Christum, so sem 10.
þu hefur fyrer þañ sama wtvaled oss, aad⸗
ur eñ Grundvollur Veralldareñar var
lagdur, og hefur laated oss vita Leyndar⸗
doom þijns Vilia epter þiñe Pocknan, og
þañ sama hier framleidt fyrer hañ, so ad
hañ verde nu Predikadur, þar Tijmeñ er
uppfylltur, aa hvorium vier heyrum ny Eph. 1.
Hañleikans Ord, sem er Evangelium um v.13.

vora Saaluhiaalp, fyrer hvorn vier høfum
eirneñ Diorfung og friaalsañ Adgaang i
fullu Trauste, fyrer Trwna aa þig, þvi fyr-
Actor. 4 er utañ hañ er ecke i neinum odrum Heilsu-
v.12. giøf, og þar er eckert añad Nafn Moñun-
um giefed, J hvoriu vier skulum Saalu-
hoolpner verda, utañ alleinasta i Nafne
Joh. 14 JEsu, hvor ad er Vegureñ Sañleikureñ
v.6. og Lijfed, Port og Dyr til Himnarijkis.
Hvor med þvi fullkomna Offre sijns Hei-
laga og Flecklausa Lijkama, hefur utvegad
Hebr.9. oss eina Eilijfa Endurlausn, aan allrar vorr
v.12. ar Tilverkunar og Forþienustu, þañ sama
Eph. 1. hefur þu upp aptur vaked fraa Daudum,
v.20.21 og sett hañ til þiñar Hægre Handar aa
Himnum, yfer allar Høfdings-Stietter,
Valld, Magt og Herradæme, og allt þad
sem nefnast maa, ecke alleinasta i þessare
Verølldu, helldur og so i þvi Tilkomanda
Lijfe. Eg bid þig, ad þu vilier hallda oss
Stadfastlega vid slijka Heilsusamlega
Cap.15 Trw, og Vidurkieñing, J þvi ad þeckia þig
v.3. Riettelega, og ad vita þijna Magt, þad er
ein Root þess Eilijfa Lijfs, Amen.

### 3.
## Bæn um rietta og saña Elsku.

Matth. 16.v.6 Cap. 7. v.29. HErra JEsu Christe, Sonur
þess Lifanda Guds, Speigill
þeirrar Guddoomlegu Dyrdar og

eilijfs Lioöma, þu sem hefur elskad oss allt
til Enda, og af heitre Astdæed a Krossen: Joh. 13.
um, fyrer oss aum̃a og Synduga, og frel: v. 1.
sad oss þar med, fra þeim eilijfa Dauda, Joh. 13
og læted oss þar vera til Fyrermyndar, v. 15.
um̃ þañ rietta Breñanda Kiærleika, sem vi:
er eigum hvør ødrum ad veita iñbyrdis. Joh. 15
Eg bid þig fyrer þijna stooru Trwfeste, ad v. 17.
þu vilier verma vor Kolldu Hiørtu, med
Ellde þijns Guddoomlega Kiærleika, ad vi:
er þig sañañ Gud med Fødur og Heilogum Devt. 6.
Anda, i eirnre eilijfre Osundurskiptelegre v. 5.
Guddooms Veru yfer alla Hlute fram̃,
og af øllu Hiarta elskum, og vardveitum
þijn Ord. Og ad vier elskum hvør añañ Joh. 8.
Jñbyrdis Hiartanlega, epter þijnu nya v. 51.
Bodorde og Epterdæme. Og audsynum
oss þar med riett Christna, og þijna Lære: Joh. 15
sveina, hvorier Endurfæddér eru, ecke af v. 15.
Forgeingelegu, helldur Oforgeingelegú
Sæde, sem er af þvi Lifanda Orde, hvørt
eilijflega blijfur, veittu þad, ad eirn og sier:
hvør Christeñ añest añañ, so sem Lim a eins Rom.
Lijkama, med Broodurlegre Elsku og Hiar: 12. v. 4.
tanlegre Trwfeste; Þar med ad slijk Ast:
seme sie ecke Folsk nie uppdycktud, helldur
rietteleg, og yferdrepsskaparlaus, so ad vier
elskum ecke hvør añañ med Orde og Twn:
gu, helldur med Verke og Sañleika, upp:

kveik þu vor Hiortu med þijnum Heilaga
Anda, svo ad vier eirneñ epter þiñe Fyrer-
myndan elskum vora Ovine, og giørum þe-
Matth. im Gott sem oss hata og offækia, og giefum
5.v.44. þier Hefndena, i øllum Hlutum med Pol-
Rom. eñmæde. O! þu Sonur Guds, tak i bu-
12 v.19 rt fra oss allt Hatur, Ofund og Fiandskap,
Eph.4.
v.31. og allañ Beyskleika, asamt allre Vondsku,
og laat alla Mañillsku vera laangt fra oss,
Col. 3. so vier leysum ecke nie sundurslijtum Sam-
v.14. band Algiorlegleikans; Hialpa þu oss so
vier Fyrergiefum hvor odrum af Hiartans
Eph..4 Gruñe, so sem þu hefur fyrergiefed oss. Og
v.16. ad vier laatum ecke Soolena undirganga
yfer vorre Reide, og giefum eckert Rwm
Lastaranum. Gief oss þijna Naad þar
Gal. 3. til, ad vier þioonum þier i riettre Trw, hvor
v.5. 6. fyrer Kiærleika er kroptug og ideñ, so vier
blijfum i þier eilijflega og þu i oss; So ad hv-
Rom.8. orke Daude nie Lijf hvorke Einglar nie Hø-
v.38. fdings Stietter, nie Valld, hvorke hid
naalæga nie hid Okomna, hvorke Hæd nie
Dypt, nie nockur oñur Skiepna kuñe ad
skilia oss fra þijnum eilijfa og endalausa
Kiærleika, þu sem med Fødurnum og heilog-
um Anda, lifer og rijker ad Eylijfu. Amen.

## 4.

## Bæn um Landsins Grooda og Avøxt.

Drott-

DRotteñ Gud Allmættugur Kong-
ur, HErra Himens og Jardar, þu Ps.47.
sem af þiñe ysergnæfanlegre Giæ- v.3.
sku, uppfyller og prijder alla Jardar-Krijng
luna, med allshættudum Avoxtum, af Psalm.
hvorium bæde Meñ og Fienadur hafa sijna 147.v.9
Næring. Eg bid þig vegna þiñar Mysk- Ps.67.
unseme, ad þu vilier blessa þetta vort Land, v. 7.
svo þad giefe af sier Grooda og Avoxt, þvi
vier kuñum ecke af siælfum oss til, minsta Gen.4.
Korn eda Ogn fram̃ ad leida, nie neitt þar v.12.
til ad hiælpa, Ef þu giefur ecke þijna Bless-
an. Gief þu þar fyrer þeim Elskulega
Jardarñar Avexte, Næduga Vedrææt-
tu, so hañ vaxe vel og friovgest. Vard- 1.Cor.3
veittu hañ fyrer Hagle og Ovedrættu, fyr- v.6.
er Akur-Galla og ollum Skadlegum Orm
um: Lættu Landed ecke uppþurkast nie
breña i þiñe Reide, so þad Eydeleggest ecke,
og verde Avaxtarlaust: Læstu ecke aptur Levit.26
Himnenum i þiñe Grimd, vegna vorra v.35.
Synda, so hañ verde sem Jaarn, og Jord- 1.Reg.
eñ sem Kopar, Helldur gief oss hæfelegt 8.v. 35.
Regn fyrr og sijdar, og þar med Frioossam- Devt.
lega Tijma: Vitia þu Landsins, og gior 28.v.23
þad Audugt, Guds Uppsprettu-Bruñur Ps.65.
hefur nooglegt Vatn. O! DRotteñ, v.10.11
Lættu vora Yrkiu vel luckast, þvi so upp-
bygger þu Landed, Vokva þu vora Plant-

an, og vora Akra, Gior Volluna miwka, og Blessa allañ Landsins Avoxt, Korona þu Ared med þijnum Gooda, so þijn Foot-Spor driwpe af Feite, So munu eirneñ Bygdernar i Eydemorkum feitar verda, ad þær driwpe, og Smaa Fiolleñ og Hæl-sarner allt um̃ krijng, munu Lysteleger verda. Haglendeñ munu vera full af Saudum, og Akrarner munu þyckt stan da af Korne, So Meñ munu fagna og syngia. So lættu nu Elskulege Gud, þad gooda Sæde og allañ Jardareñar Avoxt, under þijna Naaduga Verndan, bijfaladañ vera. Vardveit þad allt i Froste og Kullda, Is og Snioo, J Vinde Þurke og Hita, J Regne og allshættudu Vedrættu-Lage, So ad þeim verde ecke grandad. Vardveittu oss fyrer Gras-Brefte, fyrer Hwngre, Hallære og Dyr-Tijd, og fyrer ollum Harmkvælum. Siaa

Ps. 32. v. 5. du, Vier vidurkieñum vorar Synder, med Ydrande Hiarta, og kollum til þijn, Vor Gud, Vyrdstu ad heyra þad i Himeneñ, J

1. Reg. 8 v. 39. þvi Sæte þar þu bygger, og Lyknsamur ad vera Syndum þ:jns Foolks, og ysergiefa oss ecke, So vier missum vora Lijkamlega Biorg og Næring, helldur Forsorga oss Fodurlega, so vier meigum i ollum Hlut-um þiñ Guddoomlega Krapt og Millda

Hond

Hond, med Packargiord vidurkieña, og Lofa þig og Vegsama, þu sem Rijkuglega nærer oss, Bæde a Saal og Lijfe; Hier Stundlega, eñ sijdañ Eilijflega, Amen.

## 5.

## Bæn fyrer øllum Syndugum Moñum.

Almattuge Gud, Myskunsame og Goodgiarne Fader, Þu sem onga Pocknan hefur a Dauda hins Ezech. Ogudlega, helldur villt ad hañ snwe sier 18. v. 33 fra sijnu Vondu Athæfe, og life. Eg bid 18. þig fyrer øllum, þeim sem af Dioflenum eru Forblyndader, og i hañs Rijke fangn- 2. Cor. 4 er, og lifa i allskins Syndum, Løstum og v. 4. Skommum, i Holldsins og Verallðareñar Rom. 1. Epterlæte, og Vellystingum, eru dreckter, v. 26. hvorra Skilningur fornyrkvadur er, og Eph. 4. þeir eru Hyrdulauser, og giefa sig til Saur- v. 18. lifnadar, og fremia allshattadañ Ohrein- leika, Veittu þeim ad þeir verde slitner wr þeirre Noot, og Fiotrum Diofulsins, og 2 Tim. 2 komest aptur til Vidurkieñingar þijns v. 26. Guddoomlega Vilia, og til siñar Saalu- hialpar, so þeir kañest vid siñ Blindleika og stoorar Synder, og giøre Ydran af Hiar- ta. Hialpa þu Eilijfe Gud, so ad i Ver- olldeñe liñe Afgudadyrkaner, Galldrar og Fiølkynge, Bolvaner, Løstaner, Misbrwk

an þijns Heilaga Nafns, Foracktan þiña
Rom.1. Guddoomlegra Orda, Ohlijdne, Mord,
v.29. Mañdrap, Hatur, Ofund, Fiandskap-
ur, Hoordoomur, Frillulijfe, Stuldur,
Gal.5. Ran, Agyrne, Okur, Lygar, Svik, og
v.20. Bakmælge, Ofmetnadur, Fyrerlitning,
Ofaat, Ofdryckia og añad þessu lijkt, hvar
med Dijrd þijns Guddoomlega Nafns
Vanhelgast, og Ungdoomureñ og hiner
Einfølldu Christnu hneyxlast og Mañspill-
ast og Afvega leidast. Tak þu i burtu
Ezech. Prioostsku og Hardydge Maña, og gior þu
11.v.19 Stein-Hiortun flock med þijnum Anda;
Gief þu oss ollum samañ þijna Naad, So
vier Andvorpum af ollu Hiarta vegna vor-
ra Synda, og kuñum ad kañast vid siaalfa
oss, og ad komast til Vidurkieñingar þiñ-
ar Omælelegrar Myskunseme, hvoria þu
frambijdur og veiter af skiærre Naad, oll-
um þeim sem til þijn snwast: Hiaalpa þu
Eph.4. oss so vier leggium fraa oss epter vorre Fyrre
v.22. Breytne þañ Gamla Mañeñ, Sa sem sig
23.24. fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, og
ad vier mættum þar a moote Endurnyast
i Anda vors Hugskots, og Iklædast þeim
Nya Mañe, sem epter þier (þu Eilijfe Gud)
er skapadur i sañarlegu Riettlæte og Hei-
lagleika, so ad aller Meñ aflegge Lygar og
tale Sañleik hvør vid añañ, med þvi ad vier

erum

erum hvør añars Linur, og hvør sem stoled hefur, hañ stele ecke leingur, Helldur Erfvide og giore Eitthvort Ærlegt Verk med Hondunum, so hañ hafe ad giefa þeim sem Þurftuger eru. Þetta og añad þvilijkt, Phil. 4. v. 8.
þad sem Nytsamlegt, Heilsusamlegt og Ærlegt og til Betrunar og Uppbyggingar kiemur, Pad veittu oss fyrer vorn HErra JEsum Christum, Hvør med þier Lifer og Rijker i Einingu þess Heilaga Anda, sañur Gud ad Eilijfu, Amen.

## 6.

## Bæner fyrer Siwkum og Vanfærum Moñum.

Þu Vollduge og almattuge Gud, þu sem ert eirn Kraptur sa i breiskum ert mattugur, Styrkur allra 2. Cor. 12. v. 9.
þeirra sem a þig vona, eñ eirn trwfastur Hialpare i Neydeñe i hagkvæmum Tijma. Ps. 9. v. 10.
Eg bid þig fyrer ollum Siwkum Mañeskium, sem þvijngadar eru med nockrum Lijkamlegum Krankleika, eda i Daudans Neyd eru stadder, ad þu vilier giefa þeim ad þeir Vidurkieñe þiñ heilaga Vilia, og medtake lijde og umbere hañ Þoleñmoodlega, og ad þu vilier med þijnum Heilaga Anda styrkia þa, og hugga og endurnæra þa a siñe Ps. 41.
Sootta Sæng, og hialpa þeim fra ollum v. 4.

Pſ. 51. ſijnum Soottum og Siwkdoomum, My-
v. 3. ſkuna þu þeim epter þiñ: mykellre Goodgyr-
ne, og fyrergief þeim allar þeirra Synder
og Miſgiorninga, fyrer ſaker þeirrar beyſku
Pijnu þijns Sonar JEſu Chriſti, med hvo-
orium þeir hafa moodaad þig og ſtygt og ad
nockru leite gefed Tilefne til ſlijks þeirra Kr-
ankleika; Og ef þad er ecke a moote þijnum
heilogum Guddoomlegum Vilia nie þeirra
eigeñ Velferd og Saaluhiaalp, þa vilier þu
Hiaalpa þiem a Fætur, og ſtyrkia þa og
Matth. Heilbrygda giora, bæde a Saal og Lijka-
8. v. 2. ma, þvi ef þu villt, þa kantu vel ad hreinſa
Exo. 15 þa, þvi þu ert viſſulega ſa beſte Læknare, og
v. ulti. vort hædſta Trauſt, og þegar Mañleg Hi-
aalp er wtgiord, þa hiaalpar þu allra giaun-
Pſ. 80. ſamlegaſt; Þar fyrer lijttu ofañ af Himn-
v. 15. um, og aalijt Eymd og Anaud allra Siwk-
ra Maña; Laat þad ganga hier til Hiarta,
og gief þeim good Raad og hæfeleg Medol
af þijnum Guddoomlega Vijsdoome; Ve-
ittu Hiaalp med þijnum wtbreiddum Arm-
legg, ſo þeim batne, og þeir komeſt Heilbry-
gder a Fætur aptur. Eñ þeim ſem þad er
Nytſamlegra ad ſkiliaſt vid þeſſa Eymd og
wtlegd, epter þijnum Guddoomlegum Vil-
ia, eñ ad umgangaſt hier leingur i þeſſum
Eymdardal, þa vilier þu i riettre ſtadfaſtre
Trw og ſtodugre Von med eirnre hiaalp-

ſam-

samlegre Endalyckt til þijn medtaka, og samañsafna þeim i þañ eilijfa Fognud, vertu þeim Nalægur med þijnum heilaga Anda, og styrk þa til siñar sijdustu Stundar, og gief þeim Naad ad þeir bwe sig vel og viliuglega til sijns Dauda, og ad þeim verde (so myked sem møgulegt er) med Medtekningu þeirrar heiløgu Kvølldmaaltijdar, þienad og forsorgad; Og ad þeir gyrnest af Hiarta ad leysast hier fraa, og hiaa þier ad Phil. 1
vera i Skara allra þiña Utvaldra: Styttu v.23.
þeirra Lijkamlegu Kvøl og Pijnu sem þeir
lijda, og hiaalpa þeim ad yfirviña Dauð- Joh. 5.
ans Angist, So ad þeir þreynge sier þar i v. 24.
giegnum til Eilijfs Lijfs, Snw þeirra Hry- Joh. 16
gd i þa Glede, hvør ecke kañ fraa þeim tekeñ v. 20.
verda, Tak þeirra Saaler i þijna Hond, Ps. 21.
hvøriar þu hefur skapad og Endurleyst, fyr- v. 6.
er Vorn HErra JEsum Christum, Amen.

## 7.

## Bæn a moote Diøfulsins Astrijdu og Freystingum.

Þu Goode Sterke og Almaattuge Gud, Vor Himneske Fader, Vier heyrum i þijnu Guddoomlega Or- Apo. 12
de, ad Diøfullen saa Gamle Dreke og slæge v. 9.
Høggormur vor Mootstandare, geingur i 1. Pet. 5
kriingum oss sem eitt Greniande Leon, og v. 8.
leitar

eg sie ecke Holldlega Siñadur, og dæme ecke Rom. 8.
nie vvrskurde uñ þitt heilaga Ord og And- v. 5.
lega Hlute, epter mijnum Holldlegum Sk-
ilninge. Hiaalpa þu, svo eg deyse miñ Lij-
kama, og þvijnge og Krossfeste Holdded med Gal. 5.
sijnum vondum Gyrndum og Tilhneyging- v. 24.
um, so hiñ heilage Ande stioorne mier, og ad
eg epterfylge hønum i sañarlegu Riettlæte.
Med þvi eg og aller þeir sem Christo þijnum
Syne tilheyra, eiga ecke ad vera Holldleger
helldur Andleger. Og erum vier Skulld- Rom. 8.
bundner, ecke ad vier skulum Holldenu, hell- v. 12.
dur epter Andanum lifa, so vier hliootum
ecke a Saaluñe ad deya. Eñ med þvi ad Gal. 5. v. 17.
Holldid gyrnest ávallt a moote Andanum,
og Andeñ a moote Holldenu, þau eru jafn-
añ strijdande hvort a moote ødru, þa hialpa
þu Trwfaste Gud, so ad sa heilage Ande,
hvorn þu hefur giefed mier i miñe heilogu
Skijrn, og fyrer þitt elskulega Ord, drott-
ne i mier yfer Holldenu, og Yferburde hafe,
og ad eg sie hønum alla Tijma Undergiefeñ;
Og fyrer hañs Krapt meige eg deyda allar Gal. 5.
Holldsins Athafner med ollum Gyrndum v. 24.
og Fysnum, so eg gange ecke hiedañ af, nie
framfare, epter mijnum eigeñ Vilia, i Hie-
gooma mijns Hugskots. Laat mig ecke ve- Eph. 4.
rda Faangeñ nie Yferuñeñ af Syndunum Gal. 5.
nie Holldsins Verkum, og eñ þo eg kuñe v. 19.

sumtijdes ad verda af Hollde og Bloode yf-
erfalleñ, ellegar þad eg kuñe af Mañlegum
Veikleika ad hrasa og falla i Syndena, þa
gief Nrad ad eg meige um̃ sijder mig Leidriet-
ta, fyrer þijna Gudlega Hiælp og Iñblæst-
Gal.6. ur þess heilaga Anda, veittu mier þad ad
v.1. miñ Lijkame verde ecke Ostyrelætur, Oh-
oossamur nie Lostagiarn, helldur ad eg speke
1.Cor.9. hañ og temie, med Sparneytne og Hoossø-
v.27. mu Lijferne, og þvijnge hañ under Ok þiña
Bodorda, so ad eg fyrer þijna Nrad hrein-
2.Cor.7 se mig fra allre Holldsins og Hugskotsins
v.1. Saurgan, og fram̃fare med Helguneñe i
1.Cor.1 þijnum Otta, so ad miñ Ande ærsamt med
v.8. Sæluñe og Lijkamanum Ostraffañlegur
vardveittur verde til Hingadkomu vor
Herra JEsu Christi, til eilijfrar Dijrd-
ar, Amen.

## 8.

## Kvolld Bæneñ.

Psl.72. Lofadur sie DRotteñ, hvør
v.18. alleina Dæsemdar-Verkeñ
gierer, og Lofad sie hans Dij-
Ibid. rdarfulla Nafn Eilijflega, og oll
v.19. Lønd hliota full ad verda af hañs
Psl.145. Vegsemd, Eg vil Daglega Prijsa
v.21. Gud, og ad Aptne skal miñ Muñur

Packa

Packa hønum æ meir og meir, Þvi
nær eg kalla, Þa Bænheyrer hañ Ps. 17.
mig, og þegar eg Beina, þa hneyger v. 6.
hañ sijn Eyru til mijn, nær eg bid, þa
giæter hañ ad miñe Rauſt. Drott- Ps. 46.
eñ er mitt Trwnadar-Trauſt, miñ v. 2.
Styrkur og Hiaalp i þeirre ſtooru
Anaud og Mañ-Raunum ſem yfer
mig hafa komed. Þar fyrer Lofa
og Prijſa eg þig, Þu Eilijfe Gud, ad
þu hefur æ þeſſum Deige Fødurlega
Verndad mig fyrer øllum Skada
og allre Olucku, ſem mier hefde kuñ-
ad til ad falla. Mitt Hiarta er glad Ps. 84.
vært, og mijn Saal Prijſar þig fyr- v. 3.
er alla þijna Giæſku og Myſkunſe-
me, mijn Tunga ſkal hafa ſijna Ræ- Ps. 119.
du um̃ þig, og alla Tijma ſo ſeigia, v. 172.
Lofadur ſie Gud, Bleſſad ſie hañs
Heilaga Nafn. Eg bid þig, ad þu
vilier af þiñe Naad, Fyrergiefa mi-
er, allt þad ſem eg hefe æ þeſſum
Deige Syndgad æ moote þier. Og
nu æ þeſſare Epterfarande Noottu
Vardveita mig, med øllu þvi mier
tilheyrer. Vertu miñ Skiølldur
og

og mitt Skiool, yfer minne Hægre
Ps.121. Hende. O DRottenn, Vardveittu
v.5.7. mig fyrer øllu Illu, Vernda þu mij-
na Saal og vert mier Naadugur,
þvi at þig alleinasta treyste eg. Eg
vona a DRottenn, og kalla til þess
Ps.57. Allra Hædsta Guds, til Guds sem
v.2.3. Enda giører at mijnum Eymdum.
Ps.121. Siaa, hann sem mig vardveiter, sefur
v.3.4. ecke, Og Israelis Verndara syfiar
Ps.17. ecke. Han mun vardveita minn Gan-
v.5. ng a riettum Veige, so eg rase ecke,
og mijn Footspor skridne ecke. Hann
Ps.119. mun ecke laata min Foot skeika, þvi
v.105. hans Ord er mitt Lioos a mijnum
Ps.4. Vegum. Þar fyrer, nær eg legg
v.9. mig nidur, þa mun eg ecke Ottast,
helldur sætlega Sofa, Og mig mun
ecke skielfa nein skyndeleg Ognan, nie
Grimdar-Reide þeirra Ogudlegu,
nær þeirra Stormur kiemur. O
HErra Gud, Laat þu Lioos þijns
Ps.4.v. Andlits lijsa yfer mier, So eg legge
7.9. mig nidur, og sofe med øllu i Fride,
og hvijlest aan Otta under þinne Hlij-
fd, þvi þu DRottenn alleina hialp-

ar

ar mier. J þijnu Nafne vil eg nu
leggia mig til Hvijldar, og lꜳta mijn Ps. 132.
na Augna-Hvarma sofna, þu DRo v. 3.4.
tteñ Gud munt mig med Gladværd
upp aptur vekia, til ad Lofa og Dijr-
ka þijna Guddoomlega Majestat,
fyrer þiñ Elskulega Son vorn HEr
ra JEsum Christum, hvør med þier
Lifer og Rijker i Einingu Heilags
Anda, Frꜳ Eilijfd til Eilijfdar,
AMEN.

## Siøtte Jdranar Psalmur, sem er hiñ Hundradaste og þrijtugaste i Psalma-Toluñe.

BUrt wr Diwpenu hroopa eg DRotteñ til þijn. Heyr þu DRotteñ mijna Rødd; Lꜳt þitt Eyra hyggia ad Røddu miñar Grꜳtbeidne.

Ef ad þu DRotteñ villt tilreikna Syndernar. DRotteñ, hvør mꜳ þad standast?

J hiꜳ þier er Fyrergiefningeñ, so ad Meñ Ottest þig. Eg vænte DRottens, mijn Sꜳl hun bijdur hañs. Og eg vona uppa hañs Ord.

Mijn Sꜳl hun bijdur DRottens, i fra eirnre Morgun-Vøkteñe allt til añarar.

Jsrael vone uppa DRotteñ, þviad hia DRottne er Myskunseme, og i hiꜳ hønum er nooglig Endurlausn.

Og hañ mun frelsa Jsrael wt af øllum sijnum Syndum.

* * * * * *

* * *

Laugar-

# Laugardaga Bæner.

## I.

### Morgun Bænen̄.

O Þu Sañe Eilijfe Odaudlege Gud, Fader Vors HErra JEsu Christi, Til þijn upphef eg mitt Hugskot med skylldugu Packlæte. Þitt Riettlæte vil eg ecke dylia i mijnu Hiarta. Um̄ þin̄
Ps.40. v.11. Sañleika og um̄ þitt Hiaalpræde vil eg Tala, Eg vil ecke leyna þiñe Giæsku og Trwfeste, fyrer þeirre stooru Samkundu, og ecke þeigia yf-
Ps.103. v.2. er øllu þvi enu Gooda sem þu hefur giørt mier. Þvi þad er eirn aagiætur Hlutur ad þacka DRottne, og ad syngia þijnu Nafne Lof, þu hin̄
Ps.92. v.3. Allra Hædste, og ad boda ad Morgne þijna Myskun, og ad Kvollde þin̄ Sañleika ad kuñgiøra. Þar fyrer Prijsar þig mijn Saal, ad þu hefur
Eph.1. v.19. aa þessare Noottu af þiñe yfergnæfanlegre Myskuñseme verndad mig.
Esa.6. v.3. Blessadur ertu DRotteñ Gud Zebaoth,

oth, Þu sem audsyner þig Naadugañ og Lyknsamañ, vid alla þa sem þijn leita, og elska þitt Hiaalpræde. Blessad er þitt mykla Nafn i øllum Løndum, hvørt ad er vor Hlijfd og Hiaalpræde. Blessud sieu øll þijn Verk, sem þu giører vid Mañaña Sonu. Eg bid þig, ad þu vilier eirn eñ Vernda og Vardveita mig aa þessum Deige, So saa vonde Ovinur Diøfulleñ giøre mier ecke nockurn Skada, og ad Hønd þeirra Omilldu snerte mig ecke, DRotteñ Gud miñ Heilsugiafare, Arla vakna eg til þijn, þegar Sneñendis aakalla eg þig, Hiaalpa þu so eg framkvæme Verk miñar Kallanar Trwlega, og hvad sem mier er Bijfalad, þier til Lofs, eñ mijnum Naaunga til Betrunar, So eg misbrwke ecke þessa Dags-Lioos til neirnra Synda, nie stygge þig med mijnum Giørdum eda Misverkum, og yfertrode ecke Saattmaala miñar Heilogu Skijrnar Veittu mier eirneñ þa Naad, og take mier Vara fyr-
Ps. 40.
Ps. 8. v. 2.
Ps. 88. v. 14.

er

Prov. 6. v. 16. 17. 18. 19. er þeim Ser Hlutum sem þu hatar; og fyrer þeim Siøunda sem fyrer þier er Andstyggelegur, Sem er Drambsøm Augu, Følsk Tunga, þær Hendur sem wthella Saklausu Bloode, Og Hiarta sem bijr yfer Prettvijse og Illsku-Pørum, Peir Fætur sem sliooter eru til ad giøra Skada, Fals-Vottur, sem diarflega frambber Lyge, og sæ sem kiemur upp Hatre æ mille Brædra: Fyrer slijkum og ødrum þvilijkum Løstum, Vardveittu mig miñ Gud, og gief Naad, ad øll mijn Verk og allur miñ Lifnadur þockneft bier, I þiinum Elskuleaa Syne, Vorum HErra JEsu Christo, Hvør med þier Lifer og Rijker i Einingu Heilags Anda, Fra Eillijfd og til Eilijfdar, AMEN.

2.

## Packargiørd fyrer Guds Naad og Myskunseme.

Pu Heilaga Preñing, og søñ og Guddoomleg Eining, þu sem ert syndurgreinanleg i þremur Persø-

onum, og þo ein i Guddoomenum, eirn
Herra og eirn Gud, i jafnre Dijrd og Mag
tarvellde; Vier tilbidium þig; Vier heidr-
um, Lofum og Prijsum þig; Vier þockum
þier af instum Rootum vors Hiarta, fyrer
alla þijna Velgiorninga, sem þu hefur aud
syndt oss. Pvi þad er vissulega verdugt
og riettvijst og Hiaalpsamlegt, ad vier i ollum
Stodum, og alla Tijma seigium þier þack-
er þu heilage Fader fyrer JEsum Christum
vorn HErra, hvorn Einglarner lofa, og
Hofud-Einglarner tilbidia, og aller Korar Esaiæ. 6
(edur Fylkingar) þeirra Himnesku Herska- v. 3.
ra, hiner volldugu Hofdingiar a Himnum, Col. 1.
og aller Kraptar a Jorduñe. Og fierdei- v. 16.
lis þijn heilog Christeleg Kyrkia um̃ alla
VeralldarKryngluna, lofar og prijsar þig
aan Aflaats, med hædsta Vitnisburde.
Byrdstu med þeim hinum somu, ad lofa
eirneñ vorre Roddu, þier Lof og Þacker ad
giora og medtak þu vorar Bæner, sem vier
giorum, vegna þiñar stooru Myskunseme,
hvor ny uppreñur alla Morgna; So hæatt Ps. 103.
sem Himeniñ er fra Jorduñe. Pvi þa vier v. 11.
vorum dauder i vorum Syndum, hefur þu Eph. 2.
oss aasamt med Christo lifande giort, og aud- v. 5. 7.
synt ysergnæfanlegañ Rijkdoom þiñar Naa-
dar yfer oss, fyrer þijna mykla Giæsku. O! Syr. 18
hvorsu mykel er Myskunseme DRottens; v. 1.

Og hañ lætur þa fiña sig so Naadugañ sem
sier sinwa til hűs? Hvor kañ hañs Myskun-
Syr.2. semder upp ad telia? Meñ kuña þær hvor-
v.22. ke ad mijnka nie vexa, þvi hañs Myskunse-
me er so stoor sem hañ er sialfur. Hañ
Straffar og Typtar, hañ Fræder, Leider
og Foostrar, so sem eirn Hyrder sijna Hio-
rd: Hañ Lijknar ollum þeim sem sig laata
Leidrietta og heyra Guds Ord Kostgiæfe-
Ps.103. lega. Svo sem Eirn Fader aumkar sig
v.13. yfer sijnum Bornum, so Myskunar DRo-
tteñ ollum þeim sem hañ Ottast. Hvar
Mich.7. er Eirn slijkur Gud sem þu ert, Hvor fyrer-
v.18. giefur Syndernar og forlætur Misgiør-
19. ningaña þeim sem epter eru af hañs Arfley-
fd? Hañ sem ecke helldur siñe Reide Eilijf-
lega, þvi hañ er Myskunsamur, Hañ mun
aumka sig yfer oss aptur, og nidurþryckia
vorum Misgiorningum, og kasta ollum
vorum Syndum i Siaafar-Diwped.
Ps.25. Slijka þijna Giæsku og Omælelega Mysk-
v.6. unseme, (hvor vered hefur fraa Upphafe
Ps.117. Veralldareñar og um alla Eilijfd varer)
v.2. vilium vier Prijsa og Vijdfrægia, fraa eirn-
re Ættkvijsl til añarar, og Vegsama þig,
Ex. 34. ad þu ert so Naadugur og Myskunsamur,
v.6. Poleñmoodur og fullur af Giæsku og Trw-
feste. Eg bid þig, Laattu mig Aumañ og
Syndugañ eirneñ fiña Myskunseme hiaa
þier,

þier, Fyrer Vorn HErra JEsum Christum, AMEN.

## 3.

## Bæn um̃ Christelegañ Afgaung.

Þu Goode Gud, Þu sem hefur sett Mañeskiuñe Skamt siña Lijfs-Daga, hvørt Matier Madureñ Job. 14
kañ ecke yfer ad gaunga. Þvi hañ hefur v.5.
sijna aukvardada Lijfs-Tijd, og hañs Maunada-Tala stendur hiaa þier. Alla vora
Daga hefur þu taled, hvorier þo lijda skynde-
lega i burtu, So sem Eirn Frañflootande
Straumur, So sem fliwgum vier þar i Ps. 102.
fraa: Øll vor Aar eru so sem Reykur eda v.4.
Skugge, hvør skyndelega forgeingur. Mañ
eskiañ er so sem Gras, þad sem skiootlega 1. Pet. 1
þornar, og svo sem Bloomstur aa Mørkeñe, v.24.
sem snarlega visnar: Þvi kiendu mier nu
ad Hugleida, og vid ad kañast, ad mijner
Dagar hliioota Enda ad taka, og mitt Lijf Ps. 39.
hefur sijna Mæling, og eg hlijt burt ad fa- v. 5. 6.
ra. Siaa, mijner Dagar eru so sem Ein
Þverhandar-Breidd, og mitt Lijf er so sem
ecke neitt fyrer þier. Hvørsu aller Meñ
eru olldungis ecke neitt, hvorier þo lifa so
Ugglauser. DRotteñ, Kieñ þu mier ad Ps. 90.
Hugleida, ad eg hlijt ad deya, og ad eg hefe v.12.

hier engvan langvarande Samastad ad
Syr. 7. þessare Pilagrijms-Reysu. Gior þu mi-
v.40. er kunnuga mijna stutta og forgeingelega
Æfe, Svo eg huxe Opt og Ofialldan um
mijn Æfelok, so ad eg i þessum Heime, ecke
sialfum mier, helldur þier Life og Deye.
2.Pet. 3 Ad eg bijde so med Glede og Fognude i
v.11.12 Trwñe mijns Heimferdar-Dags, og Op-
enberunar þijns Elskulega Sonar JEsu
Christi, og reide mig þar til med Heilogu
Framferde og Gudlegu Athæfe. Nada
þu mig med einum Hiaalpsamlegum Af-
gange, þegar mijn Sijdasta Stund tekur
ad naalgast, So eg deye Christelega og fare
Skynsamleg Æfelok, i sañre Vidurkieñ-
ingu, so eg verde ecke fyrdtur mijnu Vite og
Skyne, og ad eg tale ecke af neinu Ovite,
nockur Gudlostunar-Ord at moote þier
mijnum DRottne og moote miñe Saalu-
hiaalp. Vardveittu mig fyrer Ovarleg-
um og Illum Dauda, og fyrer Eilijfre Fyr
erdæmingu. Laattu ecke mijna Sijdustu
Dauda-Stund hvatskeytlega yfer mig
falla, helldur so ad eg bwe mig aadur til,
med riettre Trw og sañre Ydran, og þegar
su sama Stund ad Hondum kiemur, þa
gior þu mig Oruggvan, svo eg kvijde ecke
Ofmiog vid þeim Stundlega Dauda, hv-
ør mier er ecke utan sas er Dyrunum upp-
lykur

lykur til Eilijfs Lijfs. Og laat mig þa þiñ
Pienara i Fride fara, þviad mijn Augu ha- Lucæ 2.
fa sied þañ Heilsugiafara, hvorn þu hefur v. 29. 30
fyrerbwed ollum Pioodum, Eitt Lioos til
Upplijsingar Heidnum Moñum, og til
Dijrdar þijnu Foolke Jsrael. Gief ad
mitt Sijdasta Ord sie þad, sem þiñ Elsku-
leaur Sonur talade a Krossenum, Fader Lucæ. 23
J Þijnar Hendur, Befala Eg Miñ Anda, v. 46.
Og þegar eg kañ ecke leingur ad tala, þa
Bænheyr þu miina Sijdustu Andvarpan,
Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## 4.
## Bæn um̃ Daglegt Braud.

Þu Almaattuge Gud, til þijn vors
Fodurs a Himnum, kollum vier
þijn aumu Born a Jordune, ad
þu vilier fyrer þijna Myskunseme, veita oss
og giefa vort Daglegt Braud, og allt þad
sem heyrer til Lijkamans Uppheldis og Na-
udþurftar, veit oss þijna Naad og Blessan
til alls vors Ervidis, og til allra Handa
Verka, til Yrkiu Jardareñar, og til alls
añars ærlegs Athæfis: Þvi þijn Blessan
giorer Mañ Rijkañ; Og ef þu uppbygger Prov. 10. v. 22
ecke Hwsed, þa Ervida þeir til Onytis sem
þad uppbyggia. Hiaalpa þu so vier vor- Lucæ. 5.
dum wt Nete vorrar Kallanar i þijnu Na- v. 5.

sne, og ad oss luckest þad vel ; Vardveit þu
alla þa sem eru a siñe Riettferdugre Reysu
og hliota Laangferder ad hafa til Lands og
Vatns og leita ad siñe Næring, og þa sem
flytia oss hijngad Naudsynia Voru, so ad
þeir med sijnu Gotze og øllu þvi sem þeir
medferdis hafa, vardveitter verde, og faae
øngvañ Skada. Gief þu eirneñ þijna
Naad, ad sierhvør Madur hage sier Er-
lega i Kaupum og Sølum, med goodre
Eph. 4 Samvitsku, aan Fals og Svika. Og ad
v. 28. eirn og sierhvør Ervide nockud, þad semær-
legt er, so ad hañ hafe ad giefa þeim sem Pu-
rftuger eru ; Laattu alla trwa Sende-Meñ
og Ervides-Meñ þier bifalada vera, styrk-
tu þa alla aa Saal og Lijkama. Vard-
veittu oss fyrer Otrwu Pioonustu-Foolke ;
Hiaalpa so vier neitum Hiaalpsamlega all-
ra þiña Giafa med þacklæte, og þvijngum
Matth. oss ecke med þeim leida Mamon, og med
6.v. 20 hañs aumlegre Pioonustu. Og pijnum
og plaagum oss ecke, med þeirre vondu
Bwksorg. Gief þeim Voludu Poleñmaa-
de i þeirra Faatækt, svo þeir Mogle ecke a
moote þijnum Vilia, nie Ofundsamer ver-
de vid hina sem Rijker eru og vel Megnan-
1.Tim. de, nie misgiore i añañ Maata aa moote
6.v. 17. þijnum Bodordum. Veittu eirneñ þeim
8.19. Rijku, ad þeir sieu ecke Stollter nie Dramb

laater,

laater, og setie ecke siina Von a þetta Fall=
vallta Rijkedæme, helldur a þig Lifande
Gud, þu sem Rijkuglega giefur allsħaatt=
adar Gaafur Moñunum til Parsa, ad þeir
giøre Gott af sier, og verde Rijker af good=
um Verkum, Giefe giarnañ og Hiaalpe,
samañsafne Fiesioodum, siaalfum sier eina
gooda Grundvallan, og bygge uppa hid
Epterkomanda, so þeir hondle þad Eilijfa
Lijf. O HErra Gud, Tveggia Hluta bid Prov. 30. v. 7. 8. 9.
eg þig, hvorra þu vilier ei synia mier, aadur
eñ eg dey. Afgudadyrkan og Lygar laattu
vera laangt fraa mier, Faatækt og Rijkedæ=
me gief mier ecke, eñ laat mig ødlast deilldañ
Skamt miñar Næringar, Añars mætte eg,
nær eg yrde Of=saddur, afneyta þier og seig=
ia, Hvør er DRotteñ? Ellegar, ef eg yrde
Of=Faatækur, þa mætte eg Stela og Mis=
giøra vid Nafn mijns Guds, Par fyrer
Vardveittu mig Elskulege Gud, fyrer þiñ
Kiæra Son JEsum Christum, Amen.

5.

## Bæn fyrer øllum Sorgfullum Mañeskium.

HErra Gud Himneske Fader, Med þvi ad Diøfulleñ, sem er vor Daudlegur Ovin, lætur þau Sorg fullu Hiortu ecke vera O=freystud, helldur

plagar hañ ad hafa þeirra Anaud, Siñe Prettvijse til Framkvæmdar, ad plaga þa med margvijslegum fraheyrdum og Furdu legum Hugunum, uppa þad, hañ skielfe þeirra Samvitskur, og legge Snorur fyrer þær, og kome þeim til Orvæntingar: Þar fyrer bid eg þig Audmiuklega, fyrer þa Daudans Barattu og Bloodugañ Sveita JEsu Christi, ad þu vilier Nadarsamlega añast allar Siñis-Veikar Mañeskiur, og Hughreysta þeirra Veykar og Efasamar Samvitskur, med þijnum Heilaga Anda, og med þijnu Heilaga Orde, Afvenda allre Neyd sem a þeim liggur, epter þijnum
Apoc. Fodurlegum Vilia, Og þerra oll þeirra
21.v.4. Taar, og gledia þeirra Saaler med þiñe Huggun, so þær ad auk þeirrar ytre Neydar og Piningar falle ecke af Holldsins Veikleika fyrer Ovinarens Tilteiging, nie kome i nockra stoora og Andlega Haiska-semd siña Saalna, sem er Vantrw og Orvænting, og adrar Stoor-Synder og Lester. O þu Trwfaste Gud, þu sem ecke lætur
1.Cor. neirn Mañ Freystadañ verda yfer sitt
10.v.13 Megn, helldur so, ad hvorsu Pwnglega sem nockur verdur Freystadur, þa verkar þu þad, ad Freystingeñ fær hañ eirn Enda, sem hañ kañ ad bera: Eg akalla þig, ad þu vilier troda þad slæga Hoggormus og Diosf-

Diofuls Hofud under vorar Fætur, og Rom.
Sundurmeria þad, Og ad þu vilier veykia 16.v.20
og underþryckia hañs Valld og Vielfeinge
ne, sem hañ ætstundar i frame ad hafa, og
gyrnest ad sællda þa sem Hveite. Stattu Lucæ.22
hiæ þvi Auma Mañkyne, vegna þijns El- v. 31.
skulega Sonar, hvør eirneñ hefur fyrer oss, Hebr.5.
og oss til Gooda i siñe Mañdomlegre Natt- v.2.
turu Freistadur vered. Hiælpa þu so ad
vier Huggum oss alla Tijma af Hiarta,
vid þijn sañarleg Fyrerheit og vid þijna
Gudlega Hiæstod i allre Neyd og Haska,
og meigum eirneñ fiña þa hinu somu þijna
Naad og Hiælp i Verkenu, so ad vier stönd
um æ moote þeim slægu Aræsum Andskot- 1.Pet. 5
ans, med eirnre sterkre Trw, og yfervinum v. 9.
hañ Hreystelega med þijnum Krapte fyrer
Lambsins Blood. Og fyrer Ord vors Apoc.
Vitnisburdar, sem er þad Heilaga Evan- 12.v.11
gelium, uppæ þad ad Heilsa og Kraptur,
Rijke og Magt sie Alleinasta Vors Guds, Apoc.
Þu sem Lifer og Rijker Fræ Eilijfd til Ei- 12.v.10
lijfdar, AMEN.

## 6.

## Bœn fyrer Eckium og Fødurleysingium.

ÞU goode Trwfaste Gud, þu sem Ps.68.
siælfur nefner þig Fodur hiña Fød- v.6.
urlausu, og Doomara Ecknaña, og

anaſt þeirra Naudſyniar, og giorer þeim
Exod. riett; Og hefur eirnen boded oſs i þijnu
22.v.22 Orde, ad vier ſkulum ecke Hrella nie Angra
þau, med þvi ad þau eru ædur yfergiefen af Heimenum, og eru Piaadar og Sorgfullar Manneſkiur. Eg bid þig ad þu vilier
laata allar Eckiur og alla Fodurleyſingia
vera þier bij ſolud, under þijna Myſkunſamlega Vernd, ad þu vilier forſorga þeim
og Uppheldde veita med Fæde og Klædum,
og allre anare Naudþurſt; Og vernder þau
og forſvarer a moote þeim ſem þau Þvijnga,
Eſaiæ.1 aaſeilaſt og ɯtrijma. Laattu þau finna Naad
v.25. hia ollu Yfervallde, og gior þar med Riett
þeim Fodurlauſu, og laat Ecknana Maal
Exod. efnum Hiaalpad verda, ſo þeirra Riettur
23.v.6. ſie hvorge beygdur, nie umſnwen, helldur ad þær meige faa frelſun fra ſijnum Moótſtondurum, og tilheyrelega Verndan i
ollum riettum Maalefnum. Hiaalpa ad
þeirra Forſtioorar og Forſioonar Men,
aneſt þeirra Naudſyniar alvarlega, og ad
þeim veiteſt Velgiorder af hvorium Mane.
Og ad eg ſyndgeſt ecke a þeim, helldur giore
Jac.1. þeim allt gott, en ecke neitt illt. Med þvi
v.27. ad hrein og obleckud Guds Þionuſta er þad,
ad vitia Ecknana og Fodurleyſingiana i þeirra Hormungum og ſig obleckadan fra Heimenum ad vardveita. Þu vilier eirnen

veit

veita þijna Guddoomlega Raad þar til, ad 1. Tim.
allar Eckiur setie æ øllum Tijmum sijna 5. v. 5.
Von uppa þig lifanda Gud, þeirra Fod- 10.
ur og HErra, i allre siñe Anaud og Freist-
ingum, og stadnæmest i Bæn og Grautbeid-
ne Dag og Noott, og ydke sig þar ad auk i
øllum goodum Verkum, so sem riett Gud-
hræddar Eckiur. Eñ take sier Vara
fyrer Sælgiæte og Vellystingum, og giefe
øngvum neina Hneyxlan, nie vont Epter-
dæme med Ordum eda Atvikum, sem þe-
im soomer ecke, og kome sier ecke i neina vo-
nda Grunsemd, og hlade ecke a sig neinum
Syndum. Hiaalpa þu somuleidis, ad Eph. 6.
aller Fodurlauser edur Moodurlauser upp- v. 4.
alest i soñum Guds Otta, med Æru og
Sidseme i allre Gudhrædslu, og sie Hlijd-
ner sijnum Forstiorum og Typtunar-Moñ
um, og laate sig giarnañ Leidrietta, og upp-
vaxe i ollu Sidgiæde, og medtake good
Raad og Trwlegar Amiñingar, og alla
Fodurlega Hyrting, svo þeir verde þar med
Forvarader fraa Lostum og Skomum.
Vernda þu eirneñ øll Christeleg Hioon, og
þeirra Born, ad þau falle ecke i þijna Reide,
og kome under Sverded, Ellegar i Añañ
Maata fyrer O-Tijmañlegañ Afgaang siña
Forelldra, vegna siña Misgiørninga, ver-
de Einmana og giørest ad Munadarlausum
Eck-

Exod. 22.v.24 Eckium, Aumum og Faatadum Fodurleysingium. Tak þu oss Naadarsamlega ad þier, vegna þijns Elskulega Sonar JEsu Christi, AMEN.

## 7.
## Bæn a mooke Aurvænting og Efaseme.

O Þu Myskunsamaste Gud, Epter þvi ad eg hefe Optsiñis Mootþroosanlega yfertroded þijn Heilögu Bodord, og þrǽnglega Foracktad Stygdt og Moodgad þig, miñ Gud og DRotteñ, hvar fyrer mijn Samvitska er miøg Særd og Pvijngud, so eg er þar af næsta Skielfdur og Ottasleigeñ. Og eñ þo þitt Heilaga Ord Tilseige mier Obrygdanlega miña Synda Fyrergiefning, af skiærre Naad, þa er þo mijn Trw veik og Diefulleñ sterkur, hvør giarnañ villde Stela og Ræna allre Huggun wr mijnu Hiarta, þar fyrer kalla eg til þijn Heilage Fader, Laattu mig nu alldrei hiedañ af Orvænta mier þiñar Gud doomlegrar Naadar, So eg falle ecke i þa Hrædeleguſtu Synd, sem er Vantrw og Aurvænting, nie laate Efasemena vid mig raada. Styrk þu mig, So ad eg midt i Daudanum vone aa þig mitt Lijf, og efest ecke uñ þijna Hiaalp og Myskunseme, uppa

þad eg hallde ecke mijnar Synder meire og
stærre, eñ þær kuñe mier Fyrergiefnar ad Gen. 4.
verda, So sem far Ogudlege Cain giorde. v.13.
O JEsu Christe Guds Sonur, Þu Lifan=
de Bruñur allrar Náadar, þu sem jafnañ
ert Frañflootande med Oþriootande Upp=
sprettu Myskunareñar: Til þijn kalla eg
af øllum Hug og Hiarta, Auk þu mijna
Trw til þiñar Heilogu Pijnu og Dauda, Lucæ. 17
þvi þad er Vissulega og Omootmælanlega v.1.
satt, ad Eirn Einaste Drope þijns Allra
Helgasta Bloods (sem fyrer mig wthelltur
er) er laangtum kroptugre eñ allar mijnar
stærstar og þijngstu Synder, Allijttu mig
med þijnum Myskunar=Augum, so sem þu
aaleitst hañ Sæla Petrum, epter þad hañ Matth.
hafde Afneytad þier og Formællt sier siaalf= 25.v.74
um, so ad eg Syndge ecke so sem Forræd=
areñ Judas a moote Heilogum Anda. O
Þu Goode Heilage Ande, Þu Agiætaste
Liggiande Fiesioodur: Stattu hiaa mier i
miñe Sijdustu Neyd, þegar saa Vonde
Ovinur aaklagar mig, og mijn eigeñ Sam=
vitska skulldar mig, nær Helvijtis Asynd
skielfer mig, og þa eg verd umkrijngdur med
Daudans=Neyd og hrædelegum Freyst=
ingum, nær øll Verolldeñ yfergiefur mig,
og aller Hluter eru mier Mootstædleger, þa
Hugga þu mig, so ad mijn Von hverfe ecke

fraa

fraa mier: Styrk þu mitt Hiarta med þijn um Vitnisburde og Jñsigle, so eg trwe stad fastlega Syndaña Fyrergiefning, hvor mier og øllum þeim mun veitast, sem Guds Fyrerheitum trwa. Lat þu mier Miñisstædañ vera Sattmaala miñar Helløgu Skijrnar, og ad eg hallde mier af øllu Hiarta vid þad Fyrerheit sem þar med er Samteingt (Hvør sem Trwer og verdur Skijrdur, sa skal Hoolpeñ verda) og ad eg Hugge mig þar vid, Fyrer þiñ Elskulega Son JEsum Christum, AMEN.

Marc. 16. v. 16

## 8.
## Kvølld Bæneñ.

LOF sie þier þu Hædste og Odaudlege GUD, Lofud Sie þijn Giæska og Myskunseme, Lof sie þiñe Eilijfre Speke og Sañleika, Þu sem mig hefur Verndad af þessum Deige fraa øllum Skada og Haaska. Eg bid þig, ad þu vilier Naadarsamlega frañhallda þiñe Giæsku, sem þu hefur vid mig Uppbyriad, og later mig eirneñ af þessare Noott, Hvijlast under þiñe

Ps. 91. Vædstu Hlijfd, Og skijler mier med
v. 4. þijnum Vængium, Lattu mitt At-

hvarf

hvarf og Trwnadar-Traust vera
under Skugga þiña Armleggia, svo Ps. 23.
eg Ottest øngva Olucku. Vardveit- v. 4.
tu mig miñ Gud, so sem eitt Augna-
Siaꝛalldur, Skijl þu mier under Ps. 17.
Skugga þiña Vængia. DRotteñ v. 8.
þu ert miñ Gud, og mijn Arfleyfd, Ps. 16.
mijn Heill og mitt Hiaꝛlpræde sten- v. 5.
dur i þijnum Høndum, Hiaꝛlpa
mier vegna þiñar Giæsku, so hvørke
kome yfer mig Otte nie Skielfing, Ps. 55.
Svo ad Ogn Nættureñar falle ecke v. 6.
yfer mig, Vertu mier Naꝛadugur,
þvi mijn Saꝛl Treyster aꝛ þig, og Ps. 57.
under Skugga þiña Vængia, hef eg v. 2.
mitt Athvarf. Eg leita DRotteñs Ps. 77.
i miñe Anand. Mijnar Hendur wt v. 3.
breide eg aꝛ Noottuñe, og læt ecke af,
þvi mijn Saꝛl hefur hvørge Añar-
stadar nockra Huggun. So veit eg
ecke af Neinum ødrum Hiaꝛlpara,
hvørke aꝛ Himne nie Jordu, Eñ af Ps. 119
þier alleinasta. Uñ Midnætte þeg- v. 55. 62
ar eg vakna, Hugsa eg til þijns Naf-
ns, Þvi þad er so Lystelegt, og eg miñ
est aꝛ þijna Giæsku og Trwfeste,
hvør-

hvoria þu hefur audsyndt mier. Eg
þacka þier fyrer þiñ Riettlætis Do-
Ps. 56. v. 41. om, þegar eg er Sorgfullur, þa hura
eg til Guds, og nær mitt Hiarta lijd-
ur Neyd og Angist, Þa tala eg mitt
miñ Heilsugiafara, Þvi hañ færer
mijna Saal wr Fordiorfuneñe, og
Frelsar mig frær Daudans Bønd-
um. HErra Gud miñ Heilsugiaf-
are, Eg Kalla til þijn Dag og Nott,
ad þu vilier Fyrergiefa mier, alla
mijna Misgiorninga, med hvørium
eg hefe æ þessum Deige og æ allre
Ps. 116. þessare Viku, Syndgad i moote þi-
v. 4. 5. 6. er. O DRotteñ, Frelsa þu mijna
Saal, fyrer þiñar Myskunar Sak-
er, Þu ert Nædugur og Riettvijs,
Og Vor Gud er Myskunsamur,
DRotteñ Gud Vardveiter þa Ein-
følldu. Þegar eg legg mig nidur, þa
hiaalpar hañ mier æ Fætur aptur,
Þar fyrer vil eg Gladvær vera, Og
Ps. 149. v. 5. Prijsa og Vegsama þig i miñe Hvij-
lu. So Vijfala eg nu miñ Lijkama
Ps. 31. og Saal i þijnar Hendur, Þu Trw-
v. 6. faste Gud, Þu sem mig hefur End-
leyst,

urleyst, Fyrer Vorn HErra JEsum Christum, AMEN.

## Siøunde Jdrunar Psalmur, sem er sa Fertugaste og þridie.

DRottenn heyr þu mijna Bæn, hygg ad minne Grætbeidne fyrer þijns Sannleiks saker Bænheyr þu mig þijns Riettlætis vegna.

Og gack ecke i Doom vid Præl þinn, þviad fyrer þier er einginn lifande Manna Riettferdugur.

Þviad Ovinurenn offæker Saalu mijna, og nidur-slær mitt Lijf til Jardar, Hann setur mig wt i Myrkred, so sem hina Daudu i Verolldenne.

Og minn Ande er æengradur i mier, Mitt Hiarta er Sturlad i mijnu Brioste.

Eg minnest a hina fyrre Dagana, og tala umm allar þijnar Dææsemder, og seige wt af Verkum þinna Handa.

Eg wtbreide mijnar Hendur til þijn, mijna Saal þyrster epter þier, so sem ønnur þurr Jørd, Sela.

DRottenn Bænheyr þu mig brædlegana; Minn Ande forgeingur; Vend ecke þijnu Andlite fra mier; So ad eg verde ecke lijkur heim sem i Grøfena nidurstijga.

Lætt-tu mig snemma heyra þijna Rææd, þviad eg vona uppa þig; Giør þu mier kunnann þann Veigenn, hvar eg skal uppa gæænga, þviad mig forleinger epter þier.

Frelsa þu mig minn Gud fra Ovinum mijnum; Til þijn flij eg.

Kienn þu mier ad giøra epter þijnum Vilia þviad þu ert minn Gud, þinn goodur Ande hann leide mig a riettum Veige;

DRottenn, Endurlijfga þu mig fyrer þijns Nafns saker; Leid þu Saalu mijna wt af Hørmungenne, þijns Riettlætis vegna.

Og fyrerfar Ovinum mijnum þinar Myskunar vegna. Og Slaa þeim øllum sem æængra mijna Saalu, þviad eg er þinn Præll.



# Hier epter fylgia nockrar Bæner fyrer sierlegar Persoonur

## I.

## Bæn eins Sæalusorgara.

Du Trwfaste Gud og Myskunsame Fader, þu sem hefur kallad mig aumañ og Overdugañ Pienara til
þess heilaga Predikunar Embættis, og giört mig Fiskara Mañaña, ad eg skule veida
Matth. 4.v.19. margar Sæaler til Himnarijkis, og hefur
fyrer Tilheyreleg Medøl, wtvaled mig ad
Rom.1. v.1. boda þad EilsulegaEvangelium, fyrer þessu
mijnu Sooknar-Foolke. Eg bid þig, ad
þu vilier mig þiñ Onyta Pioon, med þiñe
2.Cor 3 v.6. Naad, Dualegañ giøra til ad framflytia
Embætte þess Nya Testamentis, so ad eg
1.Cor.4 v.1. sie Trwr Pienare og Verkstioornar-Madur yfer þijnum Guddoomlegum Leyndardoomum, og forstande vel mitt Embætte,
1.Tim. 5.v.17. ecke Nauduqur, helldur Siaalfviliugur, ecke
fyrer skiemelegs Aviñings Saker, helldur
af Hiartans Gruñe vegna Eilsu þijns Heilaga Nafns. Og ad eg foodreTrwlega med
1.Pet. 5 v.2. Heilsusamlegum Lærdoome, þær Sauda-

Kynd-

Kyndur, sem ad mier eru befalodar, og
taki til Vara bædeþa Veiku og Siwku, Ezech.
Binde um̃ þad sem saart er, Sæke aptur 34.v.4.
þad sem Villt fer, og leite ad þvi sem Tijndt
og Glatad er, og Leidriette þa med Hoog-
værum Anda, sem af Einhvørium Glæp
verda yferstigner. Sendtu mier þiñ Hei- Lucæ. 2.
laga Anda, sem mier giefe Muñ og Vitsku, v. 15.
ad tala og Riettelega i sundur ad skipta þij-
nu Orde. Laattu mig ecke vera neitt O-
nytt Verkfære þiñar Naadar, helldur verka 2.Tim.2
þu med mier kroptuglega, og gief þar til v.15.
Rijkuglega Blessun. O þu Elskulege Gud,
Þu hefur sett mig til Vøku-Mañs yfer þitt Ezech. 33.v.28
Foolk, Hiaalpa þu so eg Amiñe og Vidvare
þa Ogudlegu alvarlega, og kieñe Yfertrod- Ps.51.
slu-Møñum þijna Vegu, so ad hiner Synd v.15.
ugu snweist til þijn, og marger af þeim verde
til þijns Rijkis uñer: Veittu mier eirneñ
þad eg life epter Fyrermynd þiña Orda, og 1.Pet.3
sie Fyrermynd Hiardareñar, so eg Predike v.3.
þad ecke ødrum, og verde sialfur Rækur og
wtskwfanlegur. Og ad eg giefe ecke Ovin
unum neitt Tilefne med O-Christelegu At- 1.Cor.9
hæfe, ad lasta þitt Heilaga Nafn, eda giøre v.27.
i Añañ Maata nockra Hneixlun. Gief Rom.2.
mier og øllum mijnum Tilheyrendum þiñ v.24.
H. Anda, ad vier Eflunst i riettre Trw, Matth.
Otta og Elsku, og stondum stoduger i stad- 24.v.13

K 2 fastre

fastre Von, med Riett-Ydrande Lijferne, allt til vorra Æfeloka, og medtokum so hver med ødrum þa Oforgeingelegu Dyrdarenar Koronu, vær vor Heilsugiafare og Ædste Hyrder JEsus Christus mun Openberast, Hvormed Pier Lifer og Riiker i Einingu Heilags Anda, Fra Eilijfd til Eilijfdar, A M E N.

## 2.
## Bæn Sooknar-Foolksins.

Eilijfe Gud og himneske Fader; eg bid þig fyrer mijnum Saaursorgara, ad þu giefer honum ad tala og fram
Eph. 6. bera þitt Ord med diarflegre Opnan siins
v.19. Munns, aan allrar Skielfingar i moote øllum Villudoomum og Falskieñingum og aňare Vanbrwkan, so hañ kuñgiøre oss og openbere Leyndañ-Doom Evangelij eñ wtrijme af vorum Hiortum allar vondar og falskar Meiningar. Halltu honum vid þañ hreina Heilsusamlega Lærdoom, og vardveit hañ i Christelegu Frañferde, So hañ gaange undañ oss til eilijfs Lijfs. Vern þu hañs Liikama og Heilbrygde, so hañ kuñe sem leinast med Gaane og Nytseme ad veita oss Forstødu, og ad hañ meige Kieña og Predika þitt Gudlega Ord, aan alls Otta og Skielfingar, og aan Hræsne og Yf-

ek-

erhylmingar, ecke fyrer Mañaña Villd, Hatur eda Ofund, ellegar vegna siñar eigeñ Nytseme, helldur ad hañ tale klarlega og diarflega hañ hreina Sañleik, og Straffe Synder og Løstu, so sem tilheyrer, so ad bæde eg og fleyre adrer verdum þar med til þijns Rijkis uñer. Opna þu mitt Hiarta, Hugskot og Eyru, so eg hlijde þijnu Heilsusama og verduga Orde, med Lyst og Elsku, og Hugarlaatlegre Gaumgiæfne, og Hiartanlegre Vidurkieñingu mijns Hugskots, og gange epter þvi enu sama Gudrækelega i riettre Trw, og fære Avoxt til þiñar Guddoomlegrar Dyrdar. Svipt u fra mier ollum Leida og Neñingarleyse, og send mier i mitt Hiarta og Hugskot riettelegt Hwngur og alvarlega Epterlaungan, epter þeim yfergnæfanlega Rijkdoome þiñar Naadar, sem fram fyrer oss verdur lagdur i þeirre klaaru Ordsins Predikun. Gief mier Naad þar til, ad eg mykils virde miñ Saalusorgara, og hallde hañ fyrer þiñ Þienara og Verkstioora þiña Guddoomlegra Leyndardooma, svo ad eg medtake þitt Ord af hañs Muñe, ecke odruvijse eñ so sem af þier sialfum; Og forackte ecke þad Heilaga Embætte, hvort þu hefur Moñunum Befalad, og ad eg Ovyrde ecke þitt Ord, vegna nockurs Brests þess sem þad Bodar 1. Cor. 4 v. 1. 1. Tess. 2 v. 13. Lucæ. 10 v. 16.

og Predikar. Hiaalpa þu so eg medtake alla Fodurlega Umvondun Straff og Aminingar af mijnum Predikara Christelega og med goodum Vilia, og take þær upp i Bestu Meining, og betrest þar af, og laate af mijnum Syndum, eñ hate ecke Umvondunena nie burt-kaste Typtaneñe, nie gremiest þeim og laste þa sem mig straffa. Vardveittu oss alla samañ i riettre Trw og Christelegu Lijferne, so vier mættum i þvi Daglega Eflast og Prooast, og stadfastlega oss þar vid hallda allt til vorra Efeloka, og verda so Eilijflega Saaluhoolpner, Fyrer þiñ Elskulegañ Son JEsum Christum, Amen.

## 3.
## Bæn eins Valldsmañs.

Pu Almaattuge Gud, HErra Himens og Jardar, Pu sem mig
Sap. 6. v. 4. hefur sett til þessarar Stiettar, og hefur giefed mier Valld yfer mijnum Under-Moñum, til ad stioorna þeim. Eg bid
1. Reg. 3. v. 12. þig, ad þu vilier giefa mier Hygged og Skyn
Ibid. 7. v. 9. samt Hiarta, so ad eg kuñe Riettelega ad dæma þitt Foolk, og ad skilia hvad Gott og Illt sie, og meige þar med framfylgia Riettindum med Styrk og Hughreyste, aan Blygdunar og Mañgreinar-Allits: Veittu mier Raad og Styrkleika, til ad giora þad sem þier er Pægelegt, og mijnum Under-

laatum Nytsamlegt, og þad sem koma maa
til goods Fridar. Laattu mig Hugleida,
þad eg hefe ecke mitt Valld af sialfum mier,
helldur af þier, Þeim Allra Hædsta Gude. 2. Par.
Og eg dæme ecke Mońunum Dooma, helld 19. v. 6.
ur Þier Gud DRottenń aa Himnum. Og
ad þu sitier eirneń hiaa mier i Doomum, og
siaer allt þad eg giøre. Þu sem eirneń
munt aa sijnum Tijma Eitt Sińn adspyria, Sap. 6.
hvorneń eg Umgeingst, og Ransakar hvorn v. 4.
eń eg Skycka og Skipa, þvi eg er Umbods=
Madur i þijnu Rijke, og aa eina Stutta
Stund ad lifa i þessu Embætte, sem mier er
Bijfalad, þvi þad geingur vissulega so til,
Kongur i Dag, Daudur aa Morgun. Eń Syr. 10
epter þvi, ad næsta hardur Doomur mun v. 11.
gaanga yfer þa Yfervallds=Meń, sem ecke Sap. 6.
giøra sitt Embætte riettelega, og hegda sier v. 5. 6. 7.
ecke epter þvi sem DRottenń hefur tilskyckad. 8. 9.
Og hiner Vollduga munu verda Vollduglega
Straffader, þvi saa sem er Allra HEr=
ra, mun ecke Ottast neins Persoonu, nie
hrædast nockra Magt, hań hefur skapad
bæde Smaa og Stoora, og Forsorgar þe=
im øllum. Þvi Hiaalpa þu nu Myskun=
same og Eilijfe Gud, so ad eg laate þitt Hei=
laga Ord Undervijsa mier og Typta mig, ad
eg stande vel i mijnu Embætte, og giøre Ps. 125.
hvorke nie laate giøra neinum Mańe Oriett v. 5.

nie Ofrijke, og laate mig ecke Villa nie Af-
vega leida fraa þeim rietta Veige, so eg verde
Samþyckur nockru Raanglæte, þvi eg er
þiñ Præll, og Sonur þiñar Ambaattar,
Ein veik Mañeskia, og lise Stutta Stund,
Sap. 6. og hef alls til Of-lijteñ Skilning a Løgum
v. 5. 10. og Riettindum, Pvi sendtu mier af þijnu
Heilogu Haasæte slijka Vitsku og Speke,
hvør ad mier sie Ein Medhiaalp, svo ad eg
vite hvad þier er Giedfelldt og Pocknanlegt,
hvør mig Oruggvañ leide i øllum mijnum
Giørdum, og vardveite mig med sijnum
Krapte, Svo mijn Verk verde þier, Miñ
HErra og Gud, þæg i Vorum Endurlausf-
nara og Heilsugiafara JEsu Christo, Am̃.

## 4.

## Bæn eins Under Mañs.

Pu Naaduge og Myskunsame
Rom. Gud, Pu sem alla Valldstiororn
13. v. 1. hefur Iñsett og Tilskyckad, og stad-
fest hana med þijnu Heilaga Orde. Eg
bid þig fyrer mijnu Yfervallde, under hvø-
rs Vernd og Hlijfd þu hefur sett mig, ad þu
vilier Vardveita þad Stadfastlega og O-
bifanlega i riettre Vidurkieñingu Christe-
legrar Trwar, med Laangvarande Heil-
brygde og Gudlegre Stioornan, og Blessa
þad i allañ Maata, med Allshaattadre

Raad,

Rad, Lucku og Velferd, Bæde at Saal
og Lijfe, So ad vier mættum under þess
Stioornan hafa Roosamt og Spakferd- 1. Tim.
ugt Lijferne i Radum og goodum Fride, 2. v. 2.
til Dyrdar þijns Heilaga Nafns, med oll-
um Heidre og Gudhrædslu. O þu Elsku-
lege Gud, Veittu Vorum Yfer-Moñum
Vijsdoom og Skilning til ad giora þad
Eina sem þier er Þægelegt, og til goods Frid
ar kiemur. Vardveittu þa i þeirra Em-
bætte, hvort þu hefur þeim Vijfalad, og
Vernda þa med þiñe Radarsamlegre Hlij- Ps. 7.
sd at moote ollum sijnum Ovinum og Auf- v. 2.
undar-Moñum, hvorier sitia um þeirra
Lijf, Og med Heimuglegum Svikum og
Slægdum stunda epter þeirra Embætte.
Hialpa þeim, svo þeir Poleñmoodlega Uñ-
bere og Yferviñe allañ Krossburd og Mot-
læte i siñe Kallan; Byrdstu Somuleidis
ad giora vid alla þeirra Lijkamlega Erfing-
ia og Arftoku-Meñ, og veittu þeim Lang-
giæda Lijfdaga, og hallt þeim Farsællega
vid gooda Heilbrygde i þijnum Otta. Veit-
tu mier og ollum Undergiefnum, mijnum
Lijkum, Eitt Hlijded Hiarta, svo ad vier vit-
um og Vidurkieñum, ad vort Yfervalld,
og þeir sem af þeim eru wtsender, og oll oñ- 1. Pet. 2
ur Valldstioorn sie þijn Gudleg Skyckan, v. 14.
og Heidrum og Ottunst þa, og sieum þeim

Hlijduger med allre Tilheyrelegre Under-
giefne, og tökum oss ecke upp at moote þeim,
Röm. og styggium þig, þvi hvor sig setur at moote
13.v.2. þiñe Skyckan, Slijker Meñ munu Dooms
Afelle yfer sig taka. Gief þu mier eirneñ
þa Naad, ad eg aan alls Falskleika, Greide
Valldstioorneñe med viliugu Hiarta, hvad
eg er skylldugur, epter þvi sem oss er boded,
Rom. Greided Sierhvorium þad sem þier erud
13.v.7. Skyllduger, Þeim Skatt sem Skattur
heyrer: Vardveittu oss fyrer Upphlaups-
Moñum, og umsnu þu Hiortum hiña
Fraahverfu. Hialpa þu, so ad vier sie-
um þier Allra Hædsta Gude Hlijduger,
fyrer alla Hlute fram, og þar næst Voru
Yfervallde, Og komum epter þetta Stund-
lega Lijf i þitt Eilijfa Rijke, Amen.

5.

## Bæn eins Eckta Mañs.

Þu Almattuge Gud, Þu sem,
Gen. 2. v.18. sialfur hefur Iñsett þa Heilogu
Hiuskapar-Stiett, og Prijdt og
Tignad hana med Fyrsta Krapta-Verke
Joh. 2. v. 11. þijns Elskulega Sonar JEsu Christi, So
sem þa Stiett sem þier er Þægeleg, J hvorre
marger Heilager Forfedur og Spameñ
hafa eirneñ Gudlega lifad, og þier Velþock-
nast. Nu med þvi þu hefur og so leidt mig
i þañ

i þañ Heilaga Hiwskap, og skyckad mig til Bw-Sysſlunar, og hefur-sierlega Pocknan a þessum Premur Hlutum, sem er, Nær Syr.25
Brædurner eru Samlynder, og Naagrañ- v. 1.
arner Elskast, og Madur og Kona Um-gaangast vel hvort med odru: Svo bid eg þig af ollu Hiarta, Veit mier ad eg Bwe Skynsamlega vid mijna Eigeñ-Kvíñu, J
Christelegum Kiærleika og Samþycke, svo 1.Pet. 3
sem med hinu Veikasta Verkfære, og veite v. 7.
heñe sijna Vyrding, so sem Samarsa Naad areñar og Lijffins. Gief þu bæde mier og heñe, ad vid Uppolum og Fooſtrum Born og Hiw og Heima-Foolk til þiñar Kyñingar, og Gudlegrar Dijrdar, med ollum Heidre, Æru og Sidseme: Gief þu|eirneñ Naad þar til, ad þau fylge mier i ollum good um Verkum, og laate sig giarnañ Typta og Leidrietta: Afſtijr þu þeim grima Hioona-bands-Dioſle, so hañ faae hvorke Kijse nie Tvijdrægne ockar a midle, Og ef vid kuñ-um af Mañlegum Veikleika ad sigrast, og i nockru Osamþycke ad verda, þa Hiaalpa þu, so vid Forlijkunst siaalf snarlega aptur hvort vid añad. Gief mier og þa Naad, ad eg laate mig ecke lysta til nockrar añarar Kveñmañs Persoonu, eda Eigeñ-Giptrar Matth.
Kviñu, Ellegar aalijte hana med vondum 5.v.28.
Augum til ad gyrnast heñar. Vardveittu

mig, mijna Kviñu og Born, og Heimaſ Foolk, fyrer Soott og Siwkdoomum, eptſer þijnum Guddoomlegum Vilia, Byrdſtu og so ad veita mier þijnum Pienara, ad eg take Kostgiæfelega Vara aa miñe Kallſan, og neyte mijns Brauds i Sveita mijns
Gen. 3. v. 19. Andlitis, og laate mier þad ecke Leidenlegt þykia, eñ þo þad kuñe ad verda mier swrt
Syr. 7. v. 16. og þwngt, þvi þu hefur þad svo Skipad og Skyckad: Veittu mier eirneñ Lucku og Heiller til miñar Biargar og Næringar, so ad mijn Atviña Avaxtest fyrer þijna Bleſſan, aan añara Maña Tioons og Skada: Sendtu mier Ærlegt Pioonustu-Foolk og Trwa Ervidis-Meñ: Vardveittu mitt Hws og Heimile, og allt þad sem þu hefur mier giefed. Hiaalpa oss eirneñ ad umſbera i vorre Stiett Poleñmoodlega, og eptſer þetta Lijf Samañsafnadu oss i þitt Rijſke, til allra Gudhræddra Hioona, Pu sem Lifer og Rijker fraa Eilijfd til Eilijfdar, AMEN.

## 6.

## Bæn eirnrar Hws-Moodur.

O Pu goode Gud, og trwfaste Fadſer, Epter þvi ad þu hefur af þiñe Naad kallad mig i þa heilogu Hiſwskaparstiett, og sett mig til Bwsyslunar, i hvorre

i hvorre eg kañ þier miinum Elskulega Gude ad þioona og þocknast, þa gef mier þiñe Ambautt þa Naad, ad eg hafe þiñ Guddomlegañ Otta alla Tijma fyrer miinum Augum, og elske þig, trwe og treyste þier yfer alla Hlute fram, Miñ Skapare og Endurlausnare, eñ næst þier Ottest miñ Eigeñ Mañ, heidre hañ og elske, og laate mig ecke fysa til nockurs añars. Hiaalpa þu so ad miñ Vilie sie epter þijnum Bodordum, mijnum Mañe Undergiefeñ so ad eg hlijde honum i ollu þvi sem tilheirelegt er; Og ad sa leynde Madur mijns Hiarta sie med ollu okreynktur, og allshaattudum Dygdum prijddur, so sem Fordum Daga hafa H. Kviñur prijddar vered, þær sem settu sijna Von uppa Gud, og voru hlijdnar sijnum Moñum. Gief mier þiñe Ambautt Hreinlijfe og Sidsamlegt Framferde, med Otta og Lijtelæte, so ad eg kuñe med hæverskleg um og Vinsamlegum Ordum ad blijdka og stilla Reide og Hugmod mijns Hwsbonda, og giegna honum med Tilheyrelegu Goodlynde. Og ad eg þar ad auke uppfæde og añest mijn Born og Heima-Hiw, med Hoogværd, til Lofs og Dijrdar þijnu H. Nafne; Og ad þau epterfylge mier med viliugu Hiarta til allra goodra Hluta. Hiaalpa þu eirneñ, so eg sie

Gen. 3. v.16. 1. Pet.3 v. 4.5.

1. Pet. 3 v. 2.

Gen. 2. v.21. sie mijnum Mañe ein trw Medhialp, og kostgiæfelega til samans halldе þeirre Biorg og Næringu sem þu veiter ockur af þiñe Naad, og spille øngvu med mijnu Fyrersioonarleyse, eda Rækſſuleyse, helldur Hialpe til ad viña og Ervida þad sem mier tilheyrer, epter miñe Kallan, so eg hafe ad

Eph.4. v.28. giefa þeim hinum Naudþurftugu og kuñe ad rietta mijna Hond ad þeim Voludu. Vardveittu ockur fyrer otrwum Ervidis-Moñum og vondu Heima-Foolke, sem mijnke ockar Biorg og spille heñe. Veittu mier og so þijna Naad, ad eg bere miñ

1.Pet 3. v. 6. Kross Poleñmoodlega i mijnu Hioonabande, og læte mig ecke strax skielfa nie yferbuga þo nockur Piaaning ad Hondum kome, med þvi ad vor Trw styrkest i Mootgaangenum og Mañraunum. O! HErra Gud, a þitt Almættis Vellde biifala eg mia, miñ elskulega Mañ og øll mijn Born, og Heima Foolk ad þu vilier Vardveita oss fyrer Syndum, Skom og skada, og allre Sorg Neyd og Angist, fyrer vorn HErra JESUM Christum, Amen.

7.

## Ein Barna Bæn.

Exod. 20.v.12 Þu goode Gud, þu sem mier hefur boded ad eg skule alla Tijma heidra miñ lijkamlegañ Fodur og Mood=,

og lætur þier slijka Hlijdne og Pioonustu
vel bocknast, vegna þijns Elskulega Sonar
JEsu Christi, og villt þetta med Langiæ-
dum Lijfdogum, allshattadre Blessan og
Velgiorningum Launa; Eg bid þig af ollu
mijnu Hiarta ad þu vilier lata mijna Elsk-
ulega Forelldra og alla þa sem i þeirra St-
ad eru setter, leinge lifa, og vernda og vard-
veita þa fyrer allskins Krankdæmum, og
fyrer ollum Voda og Skada, og fra ollu
illu; Gief þu mier eirnen Skynsemd, og
hlijded Hiarta, so ad eg bæde þeim og oll-
um odrum sem yfer mig eru bodner, syne Syr. 3.
Tilbærelega Hlijdne og Undergiefne, og v. 7.
heidre þa med Ordum og Verkum og Pol-
enmæde, so þeirra Blessan kome yfer mig,
Hialpa þu mier, so eg kune ad þiona mijn-
um Fodur aptur i sine Elle, og angre han Ibid.
ecke so leinge sem han lifer, helldur vyrde til v. 14.
hins besta, þo honum kune ad verda Barn-
doomslega, og foracte han ecke, En þo
eg være med jafnmyklum edur meire Gaf-
um giæddur, eda være nockud Skyckan-
legre. Somuleidis, ad eg Hrelle nie yfer- Tob. 4.
giefe alldrei mijna Elskulega Moodur, hv- v. 3.
or mig hefur bored fyrer sijnu Briooste, og
uppfædt mig med myklum Erfidismun-
um, so ad Bolvanen kome ecke yfer mig. Syr. 3.
Og eg bid þig min goode Gud, ad i hvor- v. 11.
iu

iu sem eg hefe vered mijnum elskulegum Fo
relldrum Ohlijdeñ, eda mootsnweñ, þad
vilier þu mier Fyrergiefa, vegna þiñar my-
klu Myskunseme, og reikna mier ecke til
Ps. 25. Synder og Misgiorninga miñar Barn-
v. 7. æsku, minstu ecke a mijnar Yferrrodslur og
Oviturleik, eñ laat mig kañast vid mijna
Heimsku, og giora þar fyrer saña Idran,
og snwa mier til þijn i riettre Trw, med
Idrande Hiarta, og taka mier kostgiæfe-
lega til HiartaEpterdæme mijns Heilugi-
Lucæ. 2. afara HErra JEsu Christi, hvor i sijn-
v. 51. um Ungdoome var sijnum Forelldrum Un-
dergiefeñ, ollum Bornum til Gudlegrar
Fyrermyndar. So Hiaalpa þu mier eir-
neñ, ad eg alla Tijma i Christelegre Hlijdne
Prov. 1. fundeñ verde. O! þu Myskunsame Gud,
v. 10. vardveittu mig fyrer Ogudlegum Selskap
15. og Lauslætu Foolke, so eg kome ecke i þeir-
ra Sambland, og eñ þo þeir locke mig ad
sier, þa varne eg mijnum Footum, og ga-
nge ecke a þeirra Vegum mier til Glotun-
Lucæ. 2. ar; Lættu mig so uppvaxa, ad eg aukest
v. 40. 52 og prooest ad Vijsdome, Alldre og Naad
hia þier mijnum Gude, og hia ollum Moñ-
um, fyrer þañ sama þiñ elskulega Son,
vorn HErra JEsum Christum, Amen.

* * * * * *

8.

## Eins Pioonustu-Mañs edur Pioon ustu-Kviñu Bæn.

Þu Myskunsame Gud, þu sem fyrer þa Dijrmætu Pijnu og Dauda þijns Elskulega Sonar Jesu Christi, hefur mig Endurleyst og frelsad fra þeim eylijfa Prældoome, fra Yfervallde Col. 1. v. 13. Syndareñar og Myrkraña Magt, og fra þeim hrædelega Tyrañaskap Diofulsins, og giort mig ad HErra yfer Daudanum og Helvijte. Eg bid þig, ad þu vilier giefa mier þijna Naad, so eg fæe ecke neirn Leida til þessarar Stiettar og Lijkamlegs Prældooms til hvors þu hefur mig skickad hier a Jordu, epter þijnum Vilia og Posknan, og ad eg mogle ecke med nockru mote af miñe Oþoleñmæde, æ moote þiñe Skyckan, nie Ofunde adra Meñ, af sijnum Ædre Stiettum, helldur ad eg giore þiñ Vilia, af ollu Hiarta, med goodu Giede, og ecke añad Huxe, eñ so sem eg pioone þier Eph. 6. v. 6. 7. Gud æ Himnum, eñ ecke Moñunum æ Jordeñe. So Hiælpa þu Elskulege Gud, ad eg sie nijnum Lijkamlegum Hwsbændum og Hwsmædrum (ecke alleinasta þeim 1. Pet. 2 v. 18. Goodu og Hooflyndu, helldur eirneñ þeim Illwdlegu, Hardwdugu og Abwdar-



somu)

ſomu) med Poleñmæde Hlljdeñ i ollum
þeim Hlutum ſem ecke eru hier a moote med
tilheyrelegum Otta og Einfalldleik mijns
1.Pet.2 Hiarta, ſo ſem mijnum HErra Christo,
v.18. ecke med Pioonuſtu fyrer Augunum allein-
aſta, ſo ſem Moñunum til þocknunar, hell-
Eph. 6. dur af Hiartans Gruñe, vegna þijns Bod-
v.5.6. ords og Skipunar. Giefmier þa Nand,
ad eg verde trwr fundeñ i ollu þvi ſem mi-
Col. 3. er er beſalad, og fyrer mig verdur lagt, og
v. 22. vanræke ecke neitt, nie med Skoñ og Van-
vyrdu viñe, og laate ecke neitt Tioon nie Sk-
ada ſkie af mijnu Athugaleyſe, þar ad au-
ke ad eg laate mig ecke lyſta til añara Eign-
ar ſem mier er tiltrwad, og i Hendur fein-
geñ nie fare þar Otrwlega med. Vardve-
ittu mijna Heilbrygde og ſtyrk mijna Li-
mu og Lidu, og alla Krapta mijns Lijkama;
Veit mier þar med Skynſeme og Vijs-
doom, ſo eg kuñe ad huxa uñ Ervide miña
Hwsbænda, og med þiñe Gudlegre Hia-
Gen. 30 lp, auka og betra þeirra Biorg og Nær-
v.30. ing, ſo hau bleſſeſt efleſt og aukeſt, fyrer
mijna Koſtgiæfne, og allt hvad eg giore og
frañkvæme, þad kome til þiñar Gudleg-
rar Dyrdar, og til Hialpſamlegrar Ut-
kunar og Aukningar miñar Trwar, Añ.

## 9.
## Eins Ungmeñis eda Ungrar Stwlku Bæn.

O Drotteñ Almaattugur Gud, Þu sem ert Heilagur, hreirn, Hreinlijfur og Ofleckadur i þijnum eilijfa Guddoome og hefur sierlega þocknan at Hreinferdugu Hiarta, og Gudlegre um̃geingne. Eg bid þig, skapa þu eitt hreint Hiarta i mier, vardveittu mig fyrer øllum vondum Gyrndum, fyrer Hormungum og allre Ohreinlegre Saurgan og Samblande. Hiaalpa þu so ad eg laate mig ecke laanga til añarlegra Yferlita, og giefe mig ecke til Holldsins Lostaseme, til ad fremia Skañer og Lostu, med Saurlijfis Foolke ellegar falle i nockurn añañ Maata i Oærlegt Fram̃ferde; Nidurþryck þu þær vondu Gyrnder i mijnu Hiarta, og wtslöck allañ Bruna Holldlegra Gyrnda, so ad eg skime ecke i krijng epter frijdum Persoonum. Laattu mig ecke koma i Selskap Lausslaatra Maña, ellegar rata i graadugañ og Ohooflegañ Dryckiuskap, sem epter sig leider Oskyckanlegt Athæfe. Laattu langt fra mier vera Onytsamlegt Skvalldur, skieñelegt Hial og Kiesskne, sem oss Christnum hæfer ecke. Vardveittu mig fyrer Stollse og Hoffrækt, fyrer Lete og Idiuleyse, so sem fyrer Snoru og Nete Dioffulsins; Vardveittu mig fyrer allre Tilteigingu og Bleckingu þeirra Stada sem mier

Ps. 51. v. 12.
Syr. 9. v. 7.
Eph. 5. v. 18.
Ibid. v. 4.

kuña ad giefa nockur Tilefne eda Egging
saurualegs Framferdis, so eg giore ecke
1.Cor.6 Christi Lime ad Hooruñar Limum, helld-
v.15. ur Hialpa þu, svo eg þioone þier med hrei-
rnre Saal, og Oflecfudum Lijkama, so sñi sa
Gen. 39 froome hreinferduge Joseph a Egyptalan-
v.12. de. Og þegar þu villt a þijnum Tijma
epter þijnum Gudlegum Vilia og þocknan
kalla mig i þa H. Hiwskaparstiett, þa Hi-
alpa þu mier, so eg uppbyrie þa somu St-
tett i þijnum Otta, eñ ecke af Forvitne og
vondre Fysn, eda fyrer saker Lostagyrnd-
ar, helldur vegna þiñar Guddoomlegrar
Skyckunar, og af Gyrnd Lijfsins Avaxt-
ar, hvar med þitt Heilaga Nafn meige ver
da Lofad og prijsad hier Stundlega, eñ sijd
añ Eilijflega. Send þu mier eina Frooma
Trwlynda Eckta Persoonu, med hvorre eg
meige i Fride og Naadum Samþyckelega
lifa, þu ert sa sem þecker allra Maña Hiör-
Prov. tu, og veitst allra þeirra Hugskot og Eigen-
19.v.14 leik. Af þier kiemur ein Skinsom Eckta
Persoona, þvi hun er eirn Skeinkur og
Afgiof þess allra hædsta; Þar fyrer kalla
eg til þijn, og bid ad þu vilier epter þiñe my-
klu Myskunseme vernda mig fyrer þeirre
Mañeskiu sem Griñ og Oblijd er, fyrer sa-
ker þijns Elskulega Sonar JEsu Christi,
AMEN.

10.

Bæn eirnrar Oliettrar Kviñu.

O Þu Allmættuge Myskunsame Gud, Skapare Himens og Jardar, þu sem epter þiñe þocknan hefur lagt þad a mig og allar adrar Kveñmans Persoonur Syndareñar vegna, ad vær skyll- dum fæda vor Born med Neyd og Harm- Gen. 3.
kvælum, og uppfylla Verølldena. Nu v. 16.
med þvi slijkt er þiñ Guddoomlegur Vilie, hvørn eg reikna vidurkieñe og prijsa Ostr- affonlegañ Heilagañ og goodañ vera, þvi allt þad sem þu hefur giørt og tilskickad þad Gen. 1.
er harla gott; Þvi bid eg þig fyrer þiñ Son v. 31.
JEsum Christum, ad þu vilier Hiælpa mier til ad bera og yfervinna mijnar Harm- kvælingar og Nædarsamlega leysa mig i æskelegañ Tijma fra mijnum Lijfs Avexte, med þijnu Blijda Til-lite, Og hallt mier þangad til stadfastlega vid þig, og vernda mig med þessum Avexte mijns Lijfs, fyrer øllum Voda og Skada, frasuw þu mijn- um Augum, so ad mier myssyneſt ecke svo eg setie mier nockra þa Mynd fyrer Sioo- ner, eda neitt þad i Hug hvarfli, hvar af miñ Lijfs Avoxtur meige i nockurn Mata omyndarlegur eda afskaplegur verda. Varðveittu mig svo eg falle ecke nie rase a neitt

Oforsiaalega, ellegar med heiptugre Reide, eda med nockrum ødrum hætte, giore mijnum Lijfs Avexte Mein nie Skada, so mier gange ecke illa nie Onaatturlega. Gief mier þa Naad ad eg hafe goodar Giætur a miñe Gøngur, og a øllum mijnum Giørdum, og Hegde mier og Uñigaangest med allre Skynseme, og þegar su Stund kiemur ad Høndum, ad eg skal fæda, þa hialpa mier med þiñe Naad, ad eg sie Oefasøm, og meige i sañarlegu Bæna Akalle hugbreysta mig vid þijna Gudlega Hiaalp, epter þijnum Fyrerheitum og verde gledelega leyst, og fæde eina lifande velskapada
Joh. 3. Mañeskiu i Heimeñ, epter þiñe Mynd;
v. 5. Veittu eirneñ þeirre somu Barnskiepnu, ad hun hlioote þa H. Skijrn, so hun fyrer Vatn og Heilagañ Anda, verde Endurfædd til þess eilijfa Lijfs, og meige verda eirn Erfinge þijns Himneska Rijkis, og þioone þier i riettre Vidurkieñingu og Christelegu Framferde, O! HErra Gud, Myskunsame Fader, vardveittu mig fyrer Otijmanlegum og Oskaplegum Burde. Eg gief mig alla under þiñ Vilia, hvor alla Tijma er hiñ beste, og eg bijfala þier miñ
Ps. 31. Lijfs Avoxt, þu trwe Gud, þu hefur mig
v. 6. skapad og Endurleyst, eg er þijn, þu maatt giora vid mig hvad þu villt, a þig vona eg

a medañ eg life, þu ert mitt hædsta og einka Athvarf, fyrer vorn HErra JESum Christum, Amen.

II.

## Bæn Eirnrar Eckiu, og Einsetu-Mañs.

ÞU Trwfaste og Eilijfe Gud Fader Vors HErra JEsu Christi, þu sem epter þijnum Guddoomlegum Vilia og Pocknan, hefur med Afgaange miñar Elskulegrar Eckta-Persoonu, giort mig ad Eirnre Vesællre Eckiu (Einmana Mañeskiu) Eg kalla til þijn i miñe Stooru Neyd, ad þu vilier aumka þig yfer mig, og fyrer Saker þiñar stooru Giæsku og Myskunar, af þiñe Naad, Fyrergiefa mier allar mijnar Synder, sem eg hefe giort a moote þier. Snw þier til mijn og vert mier Naad- Ps. 25. v. 16. 18.
ugur, þvi eg er Aum og Einmana. Alijttu mijna Eymd og Neyd, Forsorga þu mier og hygg mier fyrer Tijmañlegre Biorg og Næringu, so sem þu hefur giort vid Eckiuna i Zarepta, til hvorrar þu sender Spaamañeñ Eliam, og nærder hana Daasamlega i þeirre Hallæris Tijd. So vyrdstu nu eirneñ ad añast mig, og snwa til mijn þiñe Guddoomlegre Hiaalp, og Bænheyr mig i miñe Neyd, og hiaalpa mier af øllum Mot-

lætingum. Laattu mig eirneñ fiña Naad
hiaa øllum Valldstioornar-Moñum, So
þeir aalijte Riettelega mijn Maalefne, og
dæme mier Riettañ Doom, og vernde mig
fyrer øllu Ofrijke. Sendtu mier eirneñ
þa Meñ, sem af riettre Trw og Kiærleika
añast mig i mijnum aaliggiande Naudsyn-
Ps. 120. v. 2. tum, Og veita mier Vidhiaalp bæde med
Raad og Daad. Vardveittu mig fyrer
þeim Lyge-Muñum og folskum Tungum,
hvorier bijta sem Haar-Knijfur, og eru so
Ps. 64. v. 4. hvassar sem Pijlur hinar Oflugu. Frelsa
þu mig fraa Lastyrdum og vondre Bak-
mælge Illgiarnra Maña, hvorier med Eyt
rudum Ordum og Umlestre, skioota so sem
med einum Boga, og hafa hvatt og vaned
sijnar Tungur til ad lasta adra. Eg bid
þig eirneñ miñ Elskulege Gud, veittu mier
þa Naad, ad eg halldе mig Ærlega og Chr-
istelega i mijnum Eckiudoome, med Hrein-
Lijfe og goodu Framferde, so eg sie ødrum
Moñum til Goods Epterdæmis, og setie
þar ad auke mijna Von i øllum mijnum
Mootgaange, Alleinasta uppaa þig miñ
Hædsta Neyd-Hiaalpara, og gioreft hvør-
1. Tim. 5. v. 5. ke Opoleñmood, Istødulaus nie Orvijng-
lunarsom i mijnum Krossburde, Helldur
sie Stadfost i Trwñe og Bæneñe, Dag og
Noott. Siaa, So sem Augu Ambaattar-

eñar

eñar horsa at Hendur siñar Hws-Mood- Ps.123.
ur, So horsa mijn Augu at DROtteñ v.2.3.4.
miñ Gud, þangad til hañ er mier Nad-
ugur, Þvi eg er fullur af Forocktun og
Fyrerlitning, vegna þijns Elskulega Sonar
Vors HErra JEsu Christi, Amen.

## 12.

## Vegfarande Mañs Bæn.

Þu Almattuge Gud, J þijnu
Nafne vil eg ferdast af Stad a miñ
Veg, og uppbyria þessa mijna as-
formada Reisu, med Akalle þiñar Myskun-
seme, þvi þu ert vor Gud, þu sem vardveiter
allañ vorn Jñgang og Utgang, og greid- Ps.121.
er vora Fætur at rietta Leid, so þeir skeike
ecke. Eg bid þig, ad þu vilier senda mier Ps.18.
þijna Heilaga Eingla, og biooda þeim ad v.37.
þeir vardveite mig at ollum mijnum Veg- Ps.91.
um, og leide mig þa riettu Braut, til þessa v.11.
Stadar, hvort eg hefe Huglagt ad komast,
og leide mig Hraustañ og Heilbrygdañ apt
ur til mijns Hwss og Heimilis, svo sem sa
Unge Tobias var leiddur af Einglenum Tob.12.
Raphael fram og aptur til Rages i Meden. v.3.
O HErra Gud, Vardveittu mijna Fæt-
ur, so eg Hrase ecke nie Falle, eda fare nock-
urn Skada af neirnre Asteitingu, Ellegar
Oforsiaalegu Athæfe. Og ad eg kome

hvorke i Vatns-Haaska, nie falle i Reif-
ara og Mordingia Hendur. Vernda þu
mig fyrer Grimmum Villu-Dyrum, og fyr-
er øllu Illu til Lijfs og Saalar. Veittu
mier Frooma Meñ, sem mig take til Hwss
og Herbergis, og audsyne Myskunar-Verk
æ mier. Hiaalpa so eg frañkvæme vel
mitt Eyrinde med þiñe Hiaalp til Gagns og
Nytsemdar, og komest heim aptur med Fri-
de til mijns Heimilis. Vertu hiaa mier æ
øllum mijnum Vegum og Stigum, so sem
Gen. 29 þu varst med Forfødurnum Jacob, þa hañ
v.15. Ferdadest i Mesopotamiam, og so sem þu
sagder til hañs þa hañ foor i Egyptaland.
Gen.46 Eg vil Ferdast þaangad med þier, og eg vil
v.4. Flytia þig hijngad aptur. Og so sem þu
Exod. Leidder Israels Foolk yfer Hafed Rauda,
14.v.22 og sijdañ yfer þær Hrædelegu Obygder æ
20. Eydemorkeñe, Og gieckst undañ þeim æ
Dageñ i Einum Sky-Stoolpa, og æ Nott
ene i Einum Elld-Stoolpa: So vilier þu
eirneñ hiaa mier vera, og gaanga undañ
mier æ øllum þessum Veige, og leida mig
bæde Frañ og Aptur, og Vernda mig og
Vardveita, og hafa alla Umhyggiu fyrer
mier. Og so sem Eirn Trwr Leidsagnar-
Madur, Og alldrei fraa mier vijkia. Ver-
Ps.23. tu miñ Førunautur og Trwr Hyrder, J
v.1. Pijnar Hendur Bijfala Eg Miñ Lijkama

og Saal, Sømuleidis mitt Hws og Heimile, og allt þad sem mier Tilheyrer: Hialpa þu so eg fiñe þad allt samañ aptur, Med Glede og Heilbrygde, Heillt og Oskaddad, Fyrer Þiñ Elskulegañ Son Vorn HErra JEsum Christum, Amen.

## 13.
## Bæn eirnrar Freystadrar Personu.

DROtteñ Straffa mig ecke i Reide þiñe, og Typta mig ei i þiñe Bræde, Þvi þijnar Þijlur stijnga mig, Og þijn Hond þreynger ad mier, Par er ecke neitt Heilbrygdt a mijnum Lijkama, fyrer þiñe Ognan, og eingeñ Fridur i mijnum Beinum vegna miña Synda. Mitt Hiarta Skielfur. Miñ Kraptur hefur mig yfergiefed, og Lioos miña Augna er ecke nærre mier. Otelianlegar Piaaningar umkrijng ia mig, Mijnar Synder hafa griped mig, so eg kañ ecke ad siaa, þær eru fleyre eñ Haar eñ a mijnu Høfde. Og mitt Hiarta hefur yfergiefed mig. Daudans Fiotur hafa umkrijngt mig, og Helvijtis Angist er ad mier komeñ, Siaa, mijn Samvitska giefur Vitnisburd, og stendur a moote mier, Eg fiñ Verlega Daudans Neyd, og hef ongva Roo fyrer þeirre Ognarlegu Helvijtis Asynd. Eg ligg so sem i diwpu Vatne, sem
Ps. 6. v. 2.
Ps. 38. v. 4.
Ibid. v. 11.
Ps. 40. v. 13.
Ps. 18. v. 5.
Ps. 69. v. 3.

ongvañ

ongvañ Botn hefur. Og stend so sem i
Ps.88. diwpu Fene. Mijn Saal er full af Harm
kvælum, og mitt Lijf er nær komed Helvijte.
Eg er hallden Samlijkur þeim sem ofañ fa-
Ps.55. ra til Helvijtis, mitt Hiarta er Kvijda fullt
v.5 og kvelst i mijnum Lijkama, og Daudans
Otte er yfer mig fallen. O HErra Gud,
Ps.40. Frelsa þu mig, og flijt þier mier til Hiælp-
v.14. ar, Leid þu mijna Saal af þeirre Helvijtis
Angist, Fyrergief mier allar mijnar Synd-
er, af hvorium Diefullen giorer næsta hær
Fioll, fyrer hvorium eg skule ecke sia þijna
Naad, Laattu mig þa niootande verda þijns
Myskunsamlega Tillits, og svipt mig ecke
Ps.51. þiñe Fodurlegre Giæsku. Hugga þu mig
v.14. aptur miñ Gud, svo mitt Hiarta verde Roo
samt og Gladvært, Þu sem Sañarlega
meire ert eñ vor Samvitska, hvor þo oss a-
klage, þa kantu vel ad stilla hana fyrer þitt
Evangelium og Gledelegañ Bodskap. Og
eñ þo mijnar Synder sieu Mærttugar, og
Raudar sem Blood, þa er þo þijn Naad
myklu Kreptugre, og þu kant þær Snioo-
Ps.42. hvijtar ad giora: Þvi gled þig nu aptur
v.6. mijn Saal. Þvi hryggest þu so og ert so
Okyrr og O-Roo som i mier? Vona þu a
Gud, hvor ad er miñ Gud og Hiælp mijns
Auglitis. Hañ mun ryckia þier af þeirre
Neyd og Angist, og giefa þier gooda Hvijld,
Þvi

Þvi DROtteñ vill giora þier til Gooda, Ps.116.
og hañ Frelsar þig af øllum þijnum Synd- v.7.
um, Fyrer þa Saklausu Pijnu og Dauda
JEsu Christi, Hvor vordeñ er þad Hei-
laga og Flecklausa Offur fyrer alla vora
Misgiorninga, AMEN.

# Nu epterfylgia Almeñelegar Bæner.

## 1.

## Bæn þegar Reidarþrumur og Stoor-Vidre gaanga.

O Þu Almaattuge Gud, Þijnu Hei-
løgu Nafne skulu aller Vollduger Ps.29.
aa Jørduñe Lofgiørd færa, og þig v.1.
Eilijfañ Gud Tilbidia i Heilagre Prijde, Ibid.
Þvi þuert DRotteñ i þijnu Allra Hædsta v.2.
Tignar-Sæte: Þu audsyner þijna Magt
og Krapt i øllum Stødum. Rausteñ Ps.29.
DROtteñs geingur yfer stoorum Vøtn- v.3.4.
um. Gud Dijrdareñar giører Reidar-
Þrumur, Rausteñ DRotteñs geingur upp Ps.18.
Vegsamlega, og med mykellre Magt. Jørd v.8.9.
iñ Bifast og skielfur, og þau festu Fiølleñ 10.12.
13.14.
hræra

hræra sig, Gusa geingur wt af þijnum Vit-
um, og Foreydande Elldur wt af þijnum
Muñe so þar Leyptrar af, þijnar Herbwd-
er i krijngum þig, eru þau diñu svortu og
þyckvu Sky, J hvorium þu ert huleñ, og
Dimañ er under þijnum Footum. Af
Ps. 135. þeim Geislum sem undañ þier gaanga, twist-
v. 7. rast Skyeñ. DRotteñ giører Reidar-
Prumur i Loptenu, Og Sæ Hiñ Allra
Hædste hañ hleyper wt sijnum Skrugg-
um, Pu framleider Vindana af þeirra
Leyndar-Fylsñum, og rekur þa aptur i siñ
Stad, Pegar þeir hafa framkvæmt þijna
Skipan, þad er þier allt underorpeð. All-
er Hluter hallda þig siñ Skapara, og
skiaalfa fyrer þijnu Guddoomlegu Magt-
Ps. 104. ar-Vellde, þau hræsu Fiølleñ og Afgruñed
v. 18. Underdiwpsins hrædast, nær þu Reidest.
Ps. 29. v. 7. 10. Siooreñ og Vatneñ flya fyrer þiñe Reide.
Rausteñ DRotteñs hoggur so sem Ellds-
Num. 6. Loge, Rausteñ DRotteñs hrærer Eyde-
v. 25. merkurnar. DRotteñ er Kongur ad Ei-
lijfu: Hañ mun giefa Krapt sijnu Foolke.
DRotteñ mun Blessa sitt Foolk med Fri-
de. O Pu Goode Gud, Vardveit oss
fyrer þiñe Reide, sem Obæreleg er, Laattu
þijna Asioonu lysa yfer oss, og vert oss Naad
ugur. Vardveittu vort Lijf og Lijkama,
Hws og Heimile fyrer Ahlaupum Vedur-
sins,

sins, fyrer Elldingum og Liooſtan Reidar-Prumuñar, Og fyrer allre Fordiorfun. Vardveittu ſomuleidis allañ Jardareñar Avoxt a Morkeñe, fyrer Snioo, Hagle og ſtoorum Vatnsgange og fyrer ollum Skada. O Pu Heilage Gud, Vardveittu oſs fyrer vondum Dauda Gud Fader ſem hefur lated ſiñ Son lijda Kvol og Kroſſens Pijnu fyrer mig, vardveite mig. JEſus af Nazareth Kongur Gyd-inga, ſem fyrer mig ert Lijflaateñ, Vernde mig. Sæ Heilage Ande ſem mig hefur med ſiñe Helgre Smurningu, og med Teikne þeſs Heilaga Kroſs Teiknad, Giæte mijn og vardveite mig, So eingeñ Olucka kome yfer mig, Amen.

Joh. 19 v. 19.

## 2.

## Bæn i Stoorre Drep-Soott.

O Pu Almættuge Gud, Vier med-kieñum, ad vier hofum Optſiñis Styat og Moodgad þig þvnglega med vorum Stoorum og Margfolldum Syndum, og forþient allshattad hræde-legt Straff, Þvi vier hofum aller ſamañ (þvi verr) Afvega geinged, og erum Onijter ordner. Vier og vorer Forfedur hofum ecke hallded þijn Bodord, Riettinde, Sid og Setninga: Eñ vier bidium þijna O-

Pſ. 14. v. 3.

Dan. 9. v. 10.

mælan-

mælanlega Mÿskunseme med ydrande Hiortum, J Nafne þijns Elskulega Sonar JEsu Christi, ad þu vilier ecke giora vid oss ept,
Ps.103. er vorum Syndum, helldur vera oss Lijkn-
v.10. samur epter þiñe mykillre Giæsku, og Laung-
lundar-Giede. Vertu oss Naadugur, og tak i burtu fraa oss þessa Hrædelegu Soott og Plaagu, epter þijnum Fodurlegum Vilia; og laat oss ecke deya i þessare Ognarlegu
Ps.26. Drepsoott: Upprættu oss ecke i þiñe Rei-
v.9. de, Og svipt ecke i burt miñe Saalu med þeim Syndugu, nie mijnu Lijfe med þeim Jllgiorda-Moñum. O HErra, Laattu
Ps.85. af þiñe Grimd, og Onaad vid oss; Hvort
v.5.6.7 villt þu vera oss Eilijflega Reidur, og laata
.8. þitt Vandlæte alla Tijma ysergaanga, þar til þad er skiootlega wtgiort vid oss? Villtu þa ecke Endurnæra oss aptur, so þitt Foolk meige i þier Glediast? O DRotteñ, veittu
Ps.25. oss þijna Naad, og Hiaalpa oss, Miñstu aa
v.6. þijna Giæsku og Mÿskunseme, fyrer Saker
Ps.119. þijns Heilaga Nafns. O þu goode Gud,
v.137. þu ert Riettlaatur, og Ostraffanleger eru aller þijner Doomar, eñ vier hofum Syndgast og uppegnt þijna Riettferduga Reide aa moote oss. Þar fyrer er þetta Snarpa Hrijs yfer oss komed. Svo fyrergief þu nu þijnu Foolke sijna Misgiorninga, og tak iburt fraa oss þessa Banvænu Plaagu, vegna

na þeirrar Beyſku Pijnu Vors HErra
JEſu Chriſti. Vardveittu oſs fyrer þiñe
Reide, og fyrer Vondum Bradum og O-
vijſum Dauda, og Eilijfre Fyrerdæmingu.
Eñ þegar þu villt Endelega Heimſækia oſs
vegna vorra Synda, med þeſſu Stundlegu
Straffe, þa Hialpa oſs ſo vier lijdum þijna
Fodurlega Hond, og Orvijnglunſt ecke i
þeirre Hyrting. Pvi þa vier verdum Dæm 1. Cor.
der, verdum vier af DRottne hyrter, ſo 11. v. 32
vier Fordæmunſt ecke med þeſſare Verolld.
Pad er og eirneñ betra ad verda hier Stund
lega Straffadur, eñ i þvi Epterkomanda
Lijfe. Og vier viljum helldur falla i Hend-
ur DRotteñs, eñ i Mañaña Hendur, þvi
hañs Myſkunſeme er næſta mykel. O þu 2. Sam.
Elſkulege Fader, Vardveittu oſs i Riettre 24.
Trw a JEſum Chriſtum, hvor ad er ſw
Eilijfa Forlijkun, og þad fullkomlega Offur
fyrer allar vorar Synder, Amen.

## 3.

## Bæn a moote Tyrkianum.

Pu Almattuge Gud, Pu ſem ert
Kongur allra Konga, og HErra 1. Tim.
Himens og Jardar. Vier Vid- 6. v. 15.
urkieñum, ad vier hofum (þvi verr) marg- Pſ. 106.
falldlega Syndgad med Vorum Forfed- v. 6.
rum, og vier hofum misgiort og Ogudleg-

er vered, og hofum med ollu og ollu, Forþienad bæde Stundlegt og Eiliift Straff. Eñ vier bidium þig med Ydrande Hiortunn, ad þu vilier fyrergiefa oß vorar Synder, af þiñe Naad, vegna þijns Elskuleg Sonar, og vardveita oß fyrer þeim Hrædelega Tyrkians Tyrañaskap, og fyrer hañs
Psl.79. v. 1. stooru Magt. Þu sier hvorneñ hañ er iñfalleñ i þijna Arfleifd, og huxar sier ad saurga þijna Kyrkiu og Samkundu, og ad giora oß ad eirnre Grioot-Hrwgu. Hañ hefur giefed Lijkame þiña Þienara Hræ-Fuglunum under Himnenum til Fædu, og Holld þiña Þienara Villu-Dijrum i Landenu. Hañ hefur wthellt Bloode þeirra Christnu, so sem Vatne, og þar var Eingeñ sem þa Greftrade. O HErra Gud, Laattu oß ecke verda til Skamar, ad Haade og Spotte þeim sem i kriingum oß eru. O DRotteñ, hvorsu kinge villtu so miøg Reid ur vera, og laata þitt Vandlæte breña sem eirn Elld. Miñstu ecke a vora Misgiørninga, vertu oß snarlega Myskunsamur, þvi vier erum miøg Faaer ordner. Hiaalpa þu oß Gud vor Skapare fyrer þins Nafns Saker, Frelsa þu oß og fyrergief oß vorar Synder vegna þijns Nafns. Hvar fyrer lætur þu hina Heidnu seigia: Hvar er nu þeirra Gud? Laattu fyrer vorum

um Augum kuñuga verda at medal þeirra Heyndena þiña Pienara Bloods, sem wtthellt er. Lattu fyrer þig koma Andvarpan þeirra Herteknu Christnu, og vardveit þau Daudans Born med þijnum styrkva Armlegg; Taktu Hug og Hiarta fraa Tyrkiunum, so þeir hlioote ad Orvilnast, og ad þeirra Hendur verde Aflvana og Ormagna, Bølva þeim, so þeirra Meñ og Hest ar falle i diwpañ Svefn. Vardveittu oss Ps.76. v.7.
O Drotteñ Gud Zebaoth, og audsyn þijna Ps.17. v.7.
Hiaalp at oss, so vier meigum siaa Velferd
þiña Utvaldra Barna, og gledia oss med
þiñe Arfleyfd. Vier hroosum þvi, ad þu Ps.20.
Hiaalpar oss, og at þitt Nafn Vonum vier. v.6.
O HErra Gud vertu oss Naadugur, vegna
þijns siaalfs. Yfergief þu ecke þijna Arfleyfd, Ps.94.
hvor nefnd er epter þijnu Nafne, þvi þar er v.14.
eingeñ añar, sem fyrer oss kuñe ad strijda utañ Pu vor Gud alleinasta. Upphef þu
þiñ Armlegg yfer hina Añarlegu, So þeir Neh. 4. v.20.
siaae þijna Magt, og ad þeir Vidurkieñe so Syr.36
sem vier Vidurkieñum, ad þar sie Eingeñ v. 3. 4.
añar Gud, Eñ þu Gud Fader, med þijnum Syne JEsu Christo, og þeim Heilaga Anda, AMEN.

## 4.

## Ein Openberleg Jaatning.

Pu Riettferduge Gud og Myskunsame Fader, Eg Aum og Veslug
Ps.51. Mañeskia Vidurkieñe, ad eg er ecke
v.5. alleinasta Gieteñ og Fæddur i Syndeñe, helldur ad eg hefe (þvi verr) allañ miñ Alldur fra Barn-Æsku allt til þessarar naalæg rar Stundar framleidt, Med mörgum
Deut.6. þwngum Syndum. Þvi eg hefe ecke Ott
v.5. ast og Elskad þig miñ HErra og Gud, af öllu Hiarta, og af allre Saal, öllum Kropt
Matth. um og af öllu miinu Hugskote, og ecke
22.v.37 Treyst nie Trwad þier yfer alla Hlute fram, ecke helldur af Hiarta Akallad og Priisad þitt Heilaga Nafn, helldur misbrwkad þad med Bloote og Eydum, Lygum og
Svikum. Eg hefe Optsiñis Forsmaad og Forachtad Predikun þijns Heilaga Ords, og mioglijtt mig þar vid betrad. Eg hefe
Matth. ecke Elskad miñ Naunga so sem sialfañ
22.v.39 mig, helldur Hatad, Forachtad og Mood gad hañ, og giört hönum Skada, og laated giöra. Eg hefe Sviivirdelega og Oærlega breitt, bæde med Ordum og Verkum.
Eph.5. J miinum Utvegum og Atburdum, hefe eg
v.4. haft i Frame allshaattud Raanginde' a
1.Tess.4 moote miins Naunga Kiærleika, og illa
v.6. Bakmælt miinum Samchristnum, med Dyyrdingu og illum Umlestre, Eg hefe laated mig fysa til allshaattadrar Vondsku, Eg

hefe

hefe vered Dramblætur, Agiarn, Ohrein-
lijfur, Reiden, Ofneytslusamur, Osund-
sivkur og Latur, og þar med giefed mijnum
Naunga Sok og Tilefne til ad Syndga,
Eg hefe svo Yfertroded Sættmaala miñar
Heilogu Skijrnar, Og i hvorn aňañ Mæ-
ta sem eg hefe Syndgad æ moote þier, Sie
þad med Huxunum, Ordum edur Verk-
um, Heimuglega eda Openberlega, og allar Ps. 19.
mijnar duldar Synder, hvorra þu, (sem v. 13.
ert Hiartnaňa Ransakare) veitst betur eñ
eg siælfur mig sekañ vera, Þær Vidurkieñe
eg med Hiartaulegre Ydran og Angur-
Trega, Jeg er vijst eirn Onytur Þræll, Eg
hefe Syndgad i Himeneñ, og fyrer þier, er
og ecke Verdugur, ad eg heite þitt Barn,
Eg upplypte mijnum Augum til þijn, þvi eg
hefe med morgum þvnngum Syndum stoor Lucæ. 19
lega Moodgad þig, og harla þiæd mijna v. 21.
Aumu Saal og Samvitsku, hvoriar Synd Lucæ. 18
er mig underþryckia, og eru mier so þvngar v. 13.
vordnar, so sem Obæreleg Byrde. So Ps. 38.
kiem eg þo æ þessum Naadareñar-Tijma, v. 5.
og Appellera fraa þijnu strauga Riettlæte,
til þiñar Omælelegrar Myskunseme. O Lucæ. 18
HErra Gud, Vertu mier Aumum og v. 13.
Syndugum Naadugur, Fyrergief mier
mijnar Synder, og tak til Betalings fyrer
þær þañ Saklausa Dauda þijns Elskulega

Sonar JEsu Christi, og veit mier Bet-
run mijns Lifnadar, Am̄.

5.

## Bæn fyrer eñ Madur geingur til Christi Kvolldmaaltijdar.

HErra JESU Christe, Eilijfe
Guds Son, Þu sem i þijnum saña
Rom. 6. Mañdoome, hefur fyrer oss Daud
v. 10. añ lided, og Frelsad oss fra Syndunum,
og Eilijfre Fordæmingu, og uppa þad ad
vier mættum alldrei gleyma slijkre þiñe
Trwfeste, hefur þu i þiñe Sijdustu Kvollds-
Jer 31. maaltijd Jñsett og Tilskyckad Eirn Nyañ
v. 31. Ibid. v. Saattmaala, til Eilijfrar Miñingar, hvar
34. med ad Synda þeirra Riett-Trwudu skal
alldrei leingur (hvorke nu nie ad Eilijfu)
minst verda, þvi þu hefur veitt oss og Til-
Matth. skyckad þiñ Sañarlegañ Lijkama i Braude
26. v. 27 ad Eta, og þitt Heilaga Blood i Vijne ad
Drecka, og þar med Samteingt þitt Fyrer-
heit um̄ Syndaña Fyrergiefning. Vier
Aumar og Vesalar Mañeskiur komum til
þijn, sem ert Bruñur allrar Naadar og
Ps. 51. Myskunar, og bidium þig, ad þu vilier af
v. 4. oss þvo allar vorar Synder og Saurende,
og Hreinsa og Endurnæra vorar Saaler,
so ad vier meigum med Sañarlegre Ydran
og Angur-Trega i Riettre og Stadfastre
Trw,

Trw, med allre Æru og Tilheyrelegre Byrdingu, Verduger og Velskyckader vera, ad medtaka þiñ Allra Helgasta Lijkama og Blood til vorrar Saaluhiaalpar. Hiaalpa þu so ad fyrer þeñañ Leyndardoom þess Nya Testamentis, aukest i oss Trwen, og Vonen styrkest, og Kiærleikeñ uppkveikest, Og vorar Veykar Samvitskur Huggadar verde, og ad vier verdum i allañ Maata i vorum Hiortum Iñsiglader og Fullvisser giorder, um þijna Guddoomlega Elsku, og um þa Eilijfu Endurlausn vorra Saalna, So vier fiñum þar med þa Yfergnæfanlegu Naad, sem foolgeñ er i þessu Sacramente. Oh! Goode HErra, Gief oss Upplijsing vorra Skilnings Augna, so vier meigum vidurkieña, hvor ad sie Von vorrar Arfleyfdar, og hvor þar sie Rijkdoomur þiñar Dijrdlegrar Kvolldmaaltijdar, J hvoriu þu veiter oss med þijnum Sañarlegum Lijkama og Bloode, Syndañа Fyrergiefning, Sañarlegt Riettlæte, og oll Himnesk Giæde, so ad vier med Hiartanlegre Gyrnd og Epterlaungan, medtokum Opt og Tijdum þetta Heilaga Sacramentum Verduglega, og smeckum þiñ Sæt leika. Tak þu i burt fraa oss allt þad sem þier Misþocknast, og oss hindrar eda snijr fraa þier, Og gief þad sem oss snijr og leider

til þijn, So ad vier verdum med sonum A
verte Hluttakande þess Verduga og Heilsu
sama Bords, Og vorar Hwngradar og
Þyrstar Saaler verde hier med Saddar og
Dryckiadar. Ad vier ødlunst eirneñ i hinu
Lucæ.14 Epterkomande Lijfe þad Himneska Braud
v.15. med þier ad Eta Eilijflega, Amen.

6.

## Auñur Bæn Fyrer Medtekning Sacramentis.

HErra JEsu Christe, Eg er ecke
Verdugur ad eg upplwke mijnum
Muñe, og medtake þad Verduga
Lucæ.5. Sacramente þijns Lijkama og Bloods, þvi
v.8. Eg er Eitt Aum og Syndug Mañeskia.
Eñ þu ert DRotteñ, hvorn aller Himnaña
1.Reg.8 Himnar kuña ecke yfer ad taka: Hvorneñ
v.27. skal þa Mañeskiañ, sem er Dupt og Aska,
Verdug vera ad neyta þess Allra Helgasta
Gen.18 Lijkama, og þijns Dijrmæta Bloods? Eg
v.27. veit vel og Vidurkieñe, ad mijnar Synder
eru Margfalldar, Og ad eg er þess vegna
med øllu Overdugur Giestur til þessarar
Rom. Himnesku Maaltijdar. Eñ þar aptur a
10.v.9. moote trwe eg af Hiarta og vidurkieñe med
mijnum Muñe, ad þu kañt mig Overdugañ
med þiñe Naad Verdugañ ad giora, þvi þu
ert Almaattugur og Myskunsamur, þu sem
alleina

Alleina kañt ad giora þad Hreint og Hei-
lagt, sem komed er af Ohreinu Sæde, og Job. 15
af Synduguin kañtu ad giora Riettlaat- v.14.
ar og Heilagar Mañeskiur, nær þu af þiñe
Naad Fyrergiefur oss allar vorar Synder,
og Endurnyar oss med þijnum Heilaga
Anda, Þar fyrer bid eg þig, fyrer þiñ Gud-
doomlega Krapt og Kiærleika, Veittu mier 1.Cor.
þijna Naad, So eg sie Riett-Skyckadur ad 11.v.27
gaanga til þijns Bords, og giore mig ecke
Sekañ vid þiñ Lijkama og Blood, med O- 1.Cor.
verdugre Bergingu, so eg medtake mier ecke 11.v.29
Daudañ fyrer Lijfed. Gief mier þijna
Naad, so eg Proofe sialfañ mig Riettelega,
og Vidurkieñe mig vera Auma og Synd- Joh. 6.
uga Mañeskiu, og hafe Rietta og Saña v.33
Ydran i mijnu Hiarta fyrer mijna Mis-
giorninga, og giøre riettañ Greinarmun aa
þijnum Heilaga Lijkama og þijnu Dyra og
Verduga Bloode, Og giere miñ Skil-
ning Vit og Skyn þijnu Heilaga Orde alla
Tijma Underorpeñ, og aasetie mier alla Tij-
ma ad betra miñ Lifnad med þiñe Hialp, so
ad eg i þessu Verduga Sacramente Ete ecke
alleinasta þiñ Lijkama med Muñenum, og
Drecke þitt Blood, helldur ad eg medtake
þig miñ Frelsara og Heilsugiafara, i Riettre
Trw i mitt Hiarta, og hafe so i þier Lijf og
Saaluhialp, Þvi þu ert þad Lifanda Bra-

Ibid.3 ud, hvert af Himnum er komed og Mönnunum giefur Lijf: Hver til þijn kiemur, hañ
Joh. 6. mun alldrei Hungra. Hver a þig Trw-
v.56. er, hañ mun alldrei Pyrsta, Hver sem Etur þitt Holld og Dreckur þitt Blood, sa bliifur i þier og þu i honum, og hañ mun alldrei deya. O þu Sæte HErra, epter þier lañgar mijna Saal og mitt Hugskot, so sem
Ps.42. Hiortureñ kallar epter Fersku Vatne, So
v.2.3. kallar mijn Saal til þijn, mijna Saal þyrster epter Gude, Epter þeim Lifanda Gude, Nær mun eg þangad koma, ad eg meige skoda og siaa Guds blijda Asioonu. Fyll þu mig med þiñe Naad, Pu sem med þijnum Fodur og Heilogum Anda, Lifer og Rijker ad Eilijfu, Amen.

## 7.

## Packargiord Epter Christi Kvølldmaaltijd.

JEsu Christe Vor Riette og Ei-
Hebr. 9. lijfe Hofud-Prestur, Pu sem situr
v.1.2. til Hægre Handar Guds a þijnum Tignar-Stoole a Himnum, og wtskipter þeim Helgu Audæfum og Rædur fyrer þeirre Himnesku Tiallbwd, hvor ecke er med Hondum giord. Pu hefur
Hebr.9. fyrer þitt eiged Blood, Einusiñe Iñgeing-
v.11.12 ed i þad Allra Helgasta, og hefur funded
14.

off

oss Eina Eilijfa Endurlausn. Þvi þu hef-
ur sialfan þig fyrer Heilagan̄ Anda, an̄
allrar Fleckunar þijnum Elskulega Fodur
Offrad, til ad hreinsa vorar Samvitsku,
af Daudum Verkum, ad þioona þeim Lif-
anda Gude. Vier þockum þier af ollu
Hiarta, ad þu hefur af heitre Elsku med
Viliugre Hlijdne vid þin̄ Himneska Fød-
ur, med hinu mesta Sakleyse, og Oseig-
ianlegre Polen̄mæde, Lided þan̄ Sman̄-
arlega Dauda a Krossenum fyrer oss
Auma og Synduga, og þar ad auk In̄sett
þetta Heilaga Sacramentum, til Eilijfrar
Min̄ingar, og Hugleidingar þin̄ar Gud-
doomlegrar Elsku og Trwfeste vid oss, og
til Eins Vissulegs Pants og In̄siglis, og
til Oruggrar Styrkingar um̄ Fyrergief-
ning vorra Synda, og hefur kallad oss, og
læted komast til þessa Samneytis, hvar
med þu Mettar og Dryckiar vorar Hwng-
radar og Þyrstar Saaler, til Eilijfs Lijfs. Joh. 4.
O HErra Gud, hvorsu mykel er þijn Elska? v. 14.
Hvorsu Oseigianleg er þijn Myskunseme?
O hvorsu Oseigianleg er þijn Naad? Med
þvi þu wtelykur ongvan̄ fra þessare Verd-
ugu Kvolldmaaltijd, Ef Men̄ taka sig ecke
sialfer þar fra, og giora sig Overduga.
Nær sem nockurn Hwngrar edur Þyrster,
þa verdur han̄ hier Saddur, Hvor sem
Þyrst-

Purfande og Voladur er, hañ fiñur hier Allshattadañ Fiesiood og Rijkdoom þess Lifanda Guds, hvor sem Piaadur er, hañ fær hier Hvijld, Hvor sem Kraankur er, hañ ødlast hier Lækning og Heilbrygde siñar Sallar, Hvor sem hladeñ er af Syndunum, hañ hefur hier Endurnæring siñar Samvitsku, Hvor sem i Daudañ er komeñ, hañ fiñur hier þad Eilijfa Lijf. So Hiaalpa nu þu Goodgiarne Gud, So ad þetta Heil. Sacramente kome oss til Saaluhiaalpar, Og ad vier framveigis hofum
Heb.10. Stadfastlega Vidurkieñingu Vonareñar
v.23.24 og skeykum ecke, Þvi þu ert Trwfastur i oll-
25. um þijnum Fyrerheitum. Og ad vier aa medal vor Iñbyrdis, Tokum Vara a siaalf um oss med Uppvakningu til Kiærleikans, og Goodra Verka, Og yfergiefum ecke vorn Sofnud, helldur aamiñum hvor Añañ Iñbyrdis, og þess helldur sem vier siaaum aller, ad Dagureñ tekur ad naalgast, og Ending vors Lijfs ad oss þreynger, so ad vier væntum med Glede þiñar Tilkomu, Amen.

## 8.

## Auñur Packargiørd Epter Kvølldmaaltijdena.

* * * * * *

* * *

Jeg

TEG Packa þier HErra JEsu Christe, Pu Guds Lamb, ad þu hefur Offrad sialfsum þier þijnum Elsku-lega Fodur, a þijnum Heilaga Krosse, Til Eins Sætleiks Ilms, fyrer vorar Synder, hvar med oll Reide og Onaad a moote oss hefur Enda teked, og til Eilijfrar Aminningar og sannrar Trwarstyrkingar þar um, hefur þu Innsett þad Heilaga Sacramentum, og boded oss i þvi ad Eta þinn Sannarlegann Lijkama, og ad Drecka þitt Sannarlegt Blood, og sagt, Giored þetta so opt sem þier giored þad i mijna Minning, Pad er, So opt sem vier Etum af þessu Braude, og Dreckum af þessum Kaleik, þa skulum vier Kunngiora þinn Dauda, og Vijdfrægia hvad þu hefur oss þar med afrekad og wtvegad, sem er Syndanna Fyrergiefning Eilijft Lijf og Saaluhiaalp. Eg bid þig fyrer þijna Heilogu Pijnu og Bitrann Dauda, Hiaalpa þu so eg Gaange sem optast Verduglega til þessa Sacramentis, med Hiartanlegum Vidurbwninge, og Hugleide af Hiarta, hvad og hvorsu myked þad hafe þig kostad, og hvorsu Swrt og Beyskt þad hafe þier orded, ad Endurleysa mig, Og hvorsu Oseigianlega Elsku þu hefur vid mig Auglyst, Svo eg verde þar a moote hier med uppvakenn ad þacka þier þar fyrer alla

Joh. 1. v.29.

Eph. 5. v.2.

1.Cor. 11.v.25 26.

1.Joh.3 v.1.

Tijma,

Tijmq, bæde med Hiarta og Muñe, og ad
Elska þig aptur af ollum mijnum Mætte og
Gal. 6. Kroptum, og ad gaanga i þijnum Bodords
v.1. um Ostraffanlega, þo eg kuñe af mijnum
Breyskleika ad Skeyka, Hrasa edur Falla,
ad eg snwe strax aptur til þijn, og Hugge mig
af Hiarta vid þeñañ nyañ og Eilijfañ Saatt
maala þiñar Guddoomlegrar Elsku, Veit-
tu mier eirneñ þa Naad, ad eg verde med
Eph. 3. þessu Heilaga Sacramente þier Jñlijfad-
v. 6. ur, og sie Eitt Holld og Blood med þier, og
ackte Einskis alla Stundlega Hlute i þessare
Col.3. Verolldu, og Eptersylge þier med Poleñ-
v.2. mæde i Krosse og Mootgaange, og stunde
Luc. 9. alla Tijma epter þvi sem aa Himnum er, so
v.23. eg Samteingest Oadskilianlega vid þig,
mitt Einka Hofud og HErra med stadfast-
re Trw, so sem þiñ Eigeñ Limur, þar ad au-
ke, og med þvi ad þetta Sacramentum sam-
anbindur oss alla Hvorn vid Añañ, med
Brooburlegre Elsku og Trwfeste (þvi so sem
morg Korn fara i Eitt Braud, og morg
Ber verda ad Einu Vijne, So skulu eirneñ
1.Cor. 10.v.17 marger af oss verda Eirn Andlegur Lijkame
i þier) Þar fyrer Hiaalpa þu, ad so marger
af oss sem verdum Eins Brauds og Eins
Kaleiks Hluttakande, Elskum hvor Añañ
Col. 3. Jñbyrdis, so sem þijner Sañarleger Limer,
v. 8. Og fyrer alla Hlute fram, afleggium alla
Reide,

Reide, Hatur og Ofund, og Fyrergiefum
hvorium Mañe af Hiartans Gruñe, So Matth.
sem þu hefur oss Fyrergiefed, so vier Elskum 18.v.35
Hvor Añan Iñbyrdis Broodurlega fram-
veigis, og at þeim Sijdasta Deige Iñgong Matth.
um med þier vorum Brwdguma, til þiñar 25.v.23
Eilijfrar Maaltijdar i þijnu Rijke, Amen.

## 9.

## Bæn Eins Siwks Mañs.

DRottinn HErra Gud Himneske Fader, Þu ert vissulega Eirn Trwfastur Gud, og lætur ongvañ Freystadañ verda fram yfer sitt Megn, helldur giører 1.Cor.
þu þad, ad Freystingeñ fær þañ eirn Enda, 10.v.13
sem vier gietum vel bored. Eg bid þig i þessare miñe stooru Neyd og Harmkvælum, Laattu þeñañ Krossburd, ecke vera mier Ofþwngañ, Styrktu mig so eg kuñe ad bera hañ med Poleñmæde, og Efast alldrei uñ þijna Myskunseme. O JEsu Christe, Lif- Matth.
ande Guds Son, Þu sem Krossens Pijnu 16.v.16
hefur fyrer mig lided, og ert vissulega Daaeñ fyrer mijnar Synder, Til þijn kalla eg af Insta Hiartans Gruñe, Myskuna þu mier Aumre og Syndugre Mañeskiu, og fyrergief mier alla mijna Misgiorninga, sem eg hefe giort at moote þier, alla mijna Lijfs Daga. Laattu mig ecke Efast i Trwñe.

O Gud Heilage Ande, Þu sañe Huggare, J allre Neyd, Vardveittu mig i Poleñmædeñe, og i riettu Bæna-Akalle, Helga þu mig med Soñu Trwnadar-Trauste, og vijk ecke frá mier i miñe Sijdustu Neyd, Leidtu mig af þessum Eymdar-Dal, J það Rietta Fodur-Land, Amen.

## 10.

## Auñur Siwks Mañs Bæn.

Almáttuge Gud og Himneske Fader, Epter þvi ad þu hefur boded oss
Ps. 56. og sagt, Akalla þu mig i Neydeñe,
v. 15. So vil eg Bænheyra þig, og þu skallt Prijsa mig. Þess vegna kalla eg til þijn i þessare miñe stooru Anaud, Fyrer JEsum Christum þiñ Elskulegañ Son, ad þu vilier ecke yfergiefa mig Auma og Synduga Mañ-
Joh. 11 eskiu. Og ef þesse miñ Kraankleike er ecke
v. 4. til Dauda, þa Hiaalpa mier Saker þiñar
Ps. 80. mykellrar Mykunar, So eg meige Prijsa
v. 4. og Vijdfrægia þijna Magt og Krapt sem þu audsyner á mier, Eñ ef mier er hitt Nyt samlegra nu Stundlega ad deya, eñ ad vera hier leingur i þessum Eymdar-Dal, J þessu auma Lijfe, þa verde þiñ Guddoomlegur
Matth. 6. v. 10. Vilie, So á Jordu sem á Himne. Veittu mier eirneñ þijna Naad, ad eg giefe mig med ollu under þiñ Vilia. Hvør alla Tij-
mà

ma er þiñ Beste. Halltu mier Stadfastlega i Christelegre Trw og sañarlegre Vidurkieñingu allt til miña Æfeloka, Laattu mig alldrei verda fraa þier skileñ, helldur tak þu mijna Saal til þijn i þitt Rijke, Fyrer þañ sama þiñ Elskulega Son vorn HErra JEsum Christum, Amen.

## II.

## Pridia Bæn Þess Siwka.

Þu Allmaattuge Gud, Þu sem ert Exod.
Naadugur og Myskunsamur, Þol- 34.v. 6.
eñmoodur og Mykellrar Giæsku
og Trwfeste, og fyrergiefur Syndernar og
Misgiørdernar. Til þijn kalla eg, ad þu
vilier af þiñe Naad Fyrergiefa mier allar
mijnar Synder, og styrkia og Vardveita
mijna Saal aa moote Allshaattadre Freyst-
ne og Astrijdu. Kom þu mier til Hiaalp-
ar og statt hiaa mier, so ad mijn Trw veikest Matth.
ecke, og Voneñ Efest ecke, og Kiærleikureñ 24.v.12
koolne ecke, og Mañlegur Veikleike under-
þryckest ecke af Daudans Ogn og Skielf-
ingu. Og þegar mijn Andlaats-Stund Lucæ. 2.
er komeñ, þa laattu mig i Fride fara, þvi v.29.30
mijn Augu hafa sied þitt Hiaalpraad, hvort 31.
þu hefur fyrerbwed øllu Foolke, Eitt Lioos
til Uppbyrtingar Heidnum Mønnum, og til
Dijrdar þijnu Foolke Jsrael. A þañ Heil-

sugiafara Treyste eg, at hañ Vona eg. O
Ps.25. HErra Gud, Laat þu mig ecke til Skamar
v.2. verda, þviad þu ert mijn Hiaalp og miñ
Ibid. v. 16. Styrkur, Alijttu mig med þijnum Myskunar-Augum, Og snw þiñe Fodurlegre
Hebr.9. Hiaalp til mijn, Fyrer Piñ Kiæra Son JE
v.12. sum Christum, Hvor med siñe Heilogu
Pijnu og Dauda, hefur wtvegad oss
Eilijfa Endurlausn, Amen.

## 12.

## Fioorda Bæn Pess Siwka.

O Fader Allrar Naadar, Vertu Myskunsamur miñe aumu Saal, Fyrergief mier allar mijnar Synder, sem eg hefe giört at moote þier. Forsmaadu ecke þijna aumu Skiepnu, og fyrerlijt mig ecke, þvi eg er Verk þiña Handa, og laat hañ ecke Fyrerfarast, hvorn þu hefur Giört og Skapad, þvi at þig vona eg. Pu ert mijn Hiaalp og miñ Gud. O HErra
JEsu Christe þu Sañe Heilsugiafare, þu
Joh. 1. v.29. sem ert þad Guds Lamb, sem ber allar Ver
Apoc. 1. alldareñar Synder, og hefur hreinsad þær
v.5. og afþveiged med þijnu Bloode. Eg bid
þig fyrer þijna Beysku Pijnu, Sierdeilis og allra hellst fyrer þa stooru Angist sem þu þolder at þeirre Stundu, þegar þijn Allra

Helgasta

Helgasta Saal skilldest vid þiñ Helgasta Lijkama, Myskuna þu miñe aumu Saal i heñar Utfør, og leid hana til þess Eilijfa Lijfs. O þu Goode Heilage Ande, þu Sæte Huggare, Vardveittu mitt Hiarta aa moote ollum Freystingum þess vonda Diofuls, Styrk mitt Trwnadar-Traust, so eg Trwe stoduglega um Syndaña Fyrergiefning, og þad Eilijfa Lijf. So Wijfala eg nu, O þu Heilaga Preñing, miñ Anda i þijnar Hendur, þu Trwfaste Gud, þu hefur mig Endurleyst, Pu sem Lifer og Rijker ad Eilijfu, Amen. Ps. 31. v. 6.

## 13.

## Ein Bæn fyrer þa sem stadder eru hiaa þeim Siwka, sem komeñ er i Andlaated.

Pu Almaattuge Goode Gud, Pu sem vardveiter vort Lijf i Andlaatenu og Daudanum, Wier bidium þig, ad þu vilier snwa þijnum Myskunar-Augum til þessarar Siwku Mañeskiu, og Endurlijfga hana aa Saalu og Lijkama, og af þiñe Naad fyrergiefa honum allar sijnar Synder. Medtak þu Offur þess Saklausa Dauda þijns Elskulega Sonar JEsu Christi i Betaling fyrer hañs Misgiorninga, Þvi hañ er eirneñ i þess sama Nafne Skijrd

ur, og med þeſs hinſ ſama Bloode Þveigeñ
1. Joh. og Hreinſadur: So frelſa þu hañ (hana)
1. v. 7. nu af þeſſare Lijkamlegre Kvøl og Pijnu.
Styttu hañs Harmkvælingar og Vard-
veit hañ a moote Samvitſkuñar Aklogun
og a moote øllum Freiſtingum þeſs vonda
2. Tim. Diøfuls, ſo hañ ſtrijde Manlega i Trwñe,
4. v. 7. og fare yferuñed. Veittu honum Hiaalp-
ſamlegañ Afgaang, og Heimfør til þeſs
Eilijfa Lijfs. Send þu hijngad Heilaga
Eingla, ad þeir leide hañ til Safnadar
allra þiña Utvaldra, Fyrer JE-
ſum Chriſtum, Amen.



Appen-

# APPENDIX

## VIKU SAUNGUR Doct. IOHANNIS OLEARII,

tvr Pyſku Maale wtlagdur, og a Jslendſkar Saungvijſur ſnweñ.

Af Mag. STEINE JONS-SYNE, Fyrrum Byſkupe Hoola Stiftis.

### Fyrſte Pſalmur a Suñudøgum.

Ton, Allfagurt Lioos, etc.

NIjtt Lof ſie Gude nu i Dag, Nij Vika Gledur eñ vorn Hag, Nijtt i Dag ſkoop Gud Lijdum Lioos, Lijf nijtt gaf JEſus øllum oſſ.

A þeſſum Deige, þad eg fiñ, þu reiſt af Dauda JEſu miñ, Riettlæted hooſſt, eñ hepter Kijf, Huggun mier gafſt og eilijft Lijf.

O þeñañ Sæla Suñudag, ſo myked geingur oſs i Hag, JEſu þijn Milldeñ Giæſku giørn, giøre oſs DRottens Oſka Børn.

Laat, miñ Gud, Ord þijn Aſtwdlig, iñleida i Himna Sælu mig, laat mig i Helgun lifa hier, Lof eilijft ſijdar færa þier.

Sie þier Gud Fader ſungeñ Dijrd, ſie þier miñ JEſu, Loſgiørd ſkijrd, ſie þier Huggareñ Heilage, Heidur med Vegſemd eilijfre.

### Añar Pſalmur a Manudøgum.

Ton, Ofan af Himnum hier kom eg, etc.

SYng DRottne Loſgiød Saala mijn, ſiñ Manudagſens Lioos þier ſkijn, Himenfeſting a þønum ſkoop, HErrañ þiñ Gud, þitt Trauſt og Hoop.

Til Himens upp hvad Himneskt er, til Himens leita Riett-Christner, fallvallt er þad sem fiñst a Jørd, Fast-Eigneñ vor er Himna Dijrd.

O JEsu gief þiñ Anda mier, æ a medañ eg lifi hier, so mijn til Himna hefiest Ønd, hallde eg þier fast med Trw-ar Hønd.

Twnglsins Byrta misg Brygdul er, bregdst Roadar Lioos þitt alldrei mier, Heims þa forgeingur hverfullt Prial, a Himnum gled þu mijna Sœal.

Sie þier Gud Fader sungeñ Dijrd, etc.

## Þridie Psalmur a Þridiudøgum.

### Toon, Eirn Gud Skapare, etc.

Lioos Þridiudagsins lioomar nu, lofud sie Gud þijn Ast og Trw, O! mijn Sœal þu ei þeigia skallt, þiodne nu DRottne Hiartad allt.

Horfe eg a Handaverk þijn, HErra Gud skøpud vegna mijn, i Dag er Sioor og eirneñ Jørd, af þier frioosom og bloomleg giørd.

Skoda, mijn Sœal, hvad Skiepnurnar, vid Skaparañ eru Hlijdugar, bloomgadest Jørd þa baud hañ þad, Bod-um hañs lijka giæt þu ad.

O JEsu hneig þu Hiartad mitt, i Helgun ad stunda Gieded þitt, so Glæpaña alldrei giørest þij, Gud miñ blessadur stioorna þvi.

JEsu miñ HErra becke eg þig; Þræl þiñ Trwañ læt vera mig, þier vil eg alla Þioonkan tiæ, þa fæ eg Lañn-eñ Himnum æ.

Sie þier Gud Fader sungeñ Dijrd, etc.

## Fiorde Psalmur a Midvikudøgum.

### Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreirn, etc.

Gude sie Dijrd, sem giørde Lioos, og giefur eñ nya Byrtu oss, Sool og Tungl DRotteñ dijrstur skoop, i

Dag med skijnandc Stiarna Hoop.

Sool og Tungl hefur sijna Tijd, Sool Riettlætesins fegur og blijd, alldrei forlætur Aundu mijn, eilijf Myskunar Byrtañ þijn.

Nær Augun leingur Sool ei sia, Sool Riettlætesins lijs mier þa, Naadar Lioos þitt sem Lioomar hier, til Livoss þess eilijfa fylge mier.

Sie þier Gud Fader sungen Dijrd, etc.

## Fimte Psalmur a Fimtudøgum.

Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, etc.

SYng med Fagnade Saala mijn, sætt Lof Gude er Myskun sijn, yfer þig jafnañ útbreider, Upphellde og Blessan veiter þier.

Fiska og Fugla Frioosguneñ, foostrar mijn Saal Lijkama þiñ, epter Guds Bode er þad skied, og hañs hid fimta Dags-verked.

Hiartad mitt gledur, HErra miñ, heilagaste Naatt-Verdur þiñ, i Dag su Maaltijd Iñsett var, Ondu miñe til Lijfgunar.

A þeñañ Dag er Uppstijgeñ, aptur til Himna JEsus miñ, Fødurland eilijft oss þar sañ, a Guds hægra Veg settest hañ.

Hiartanu mijnu af Himna Troon, Hugsvalar æ þijn Fyrerbvon, þegar ad Andvarps Ordeñ mijn, uppstijga Jesu miñ til þijn.

Dijrd þijn miñ JEsu eilijf er, eilijfa Dijrd þu tilbioost mier, epter þad Stundleg Eymdeñ dvijn, upptaktu mig i Dyrd til þijn.

Sie þier Gud Fader sungeñ Dijrd, etc.

## Siötte Psalmur a Føstudøgum.

Toon, Minstu O Madur a miñ Deyd, etc.

Fag

SAgna, mijn Saala, Frelse þijn, frelsud af Synd og Daudans Pijn, Syndaña vegna DRotteñ dov, Daudeñ hañs, Lijfed oss tilbioo.

Adam Daudañ iñleidde fyrst, a þessum Deige hañ Skapadest, i Dag Guds sonur deyde a Kross, Dijrd eilijfs Lijfs hañ keypte oss.

O JEsu fyrer þiñ ædstañ Deyd, er eg nu frials af hverskins Neyd, Hertoge Lijfsins Hlijfd er mijn: hvar er nu Daude Magteñ þijn?

Mijn Saal, Frelse þier Guds Son gaf, Glæpaña Prældoom laat þvi af, O miñ Frelsare uñ þu mier, eilijfs Frelsis i Dijrd hia þier.

Sie þier Gud Fader sungeñ Dijrd, sie þier miñ JEsu, Lofgiørd skijrd, sie þier Huggareñ Heilage, Heidur med Vegsemd Eilijfre.

## Siøunde Psalmur a Laugardøgum.

Ton, Sañheilagt Lioos, etc.

HVijld er nu bweñ Hiarta mijn, Hvijldest DRotteñ af Verkum sijn, Hvijld mijn i Gude allein er, O DRotteñ hvijldu þig i mier.

J Dag miñ liwfe Lausnare, Laateñ hvijldest i Grøfeñe, er þvi Hvijld miñe Ondu vijs, upp i Himnesk re Paradijs.

Epter Armædu Heimsins hier, Hvijld eilijfa gief DRotteñ mier, laat mig i Roosemd lifa þar, og Liooma Himneskrar Farsælldar.

Endt er þa giørvøll Eymd og Kijf, i eylijfre Hvijld ec med þier blijf; Gief Christnum Roo og Huggun hier, Himneska sijdañ Dijrd hia þier.

Sie þier Gud Fader sungeñ Dijrd, sie þier miñ JEs[u] Lofgiørd skijrd, sie þier Huggareñ Heilage, Heidur me[d] Vegsemd eylijfre.



